oss blessader, vier sialfer blessader, og oll vor Verk blessud. Gud giefi oss þar til Naad sijns Anda i JEsu Nafne. J Dag er hinn fiórde Dagur þessa Sumars, þar fyrer skulum vier a honum sem og sierhverium odrum Dege minnast sierdeiles a fióra Daga, og af þeim taka oss andlegar Hugleidingar. Hinn Fyrste er vor Fædíngar-Dagur: Hañ hafa Magtar-Menn og Stór-Herrar Veralldarennar i mikelle Vyrdingu, Pharao Kongur hiellt sinn Burdar-Dag, Gen. 40. So giorde og Herodes, Matth. 14. Ecke einasta a þeim Dege Arsins sem ber uppa vorn Fædíngar-Dag, helldur og a hverium Dege eigum vier ad minnast vors Burdar-Dags, med þvi Móte, ad offra Gude hiartanlegu Þacklæte, fyrer þann Velgiorning, ad hann af einskiærre Naad, og fodurlegre Hiarta Giædsku, an þess hann þyrfte vor vid i nockru sijn vegna, skapade oss skinsemdarfullar Manneskiur, so vier kynnum fyrer Upplijsing H. Anda, ad fa hann þecktann oss til Saluhialpar, og noted þeirra Giæda, er hann bæde hier og sijdar hefur oss veitt og tilbwed; Þviad alla Hlute, so vel þa Himneskn i Lopteinn, sem þa Jardneskn a Jordunne, hefur Gud fyrer Mannenn giorda: Af þeim hefur Madur Not, Ynde og Epterlæte, einna hellst fyrer þad, ad hann er skinsemdarfull Skepna, og þa yfir

gnæfa Þau eilijfu Giæden, til hverra hañ hefur oss wtvaled, ædur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur, Eph. 1, og Þad ædur enn hann giorde oss Manneskiur. A Þeññañ Dag eigum vier med Þvilijku Þacklæte ad minnast, ad vier brwkum alltijd vora Skinseme, og vora Limu, Gude til Dijrdar og Þocknunar, oss til Velferdar, og Næungannum til Gagns og Adstodar: Þad kallar Paulus ad liꝛ sijna Limu til Þess Offurs sem lifande er, og heilagt og Gude Þacknæmt, hvert ad er vor skinsamleg Þiónusta, Rom: 11. Og enn aptur kiemst hann so ad Orde: Liáed ydur siálfa Gude, og ydar Limu, Gude til Rettlætes Hervopna, Rom. 6 v. 13.

Sá annar Dagur, æ hvern vier eigum sijfelldlega ad minnast, er vor Skírnar=Dagur, Þvi so dædsamt Guds Verk sem Þad var ad skapa oss, so miklu dædsamlegra var Þad, ad endurskapa oss, ad giora oss, sem af Nattúrunne vorum Reidennar Börn, Eph. 2. og i Syndenne gietner og fæddꝛ, Ps 51, ad Guds Börnum, og Erfingium eilijfs Lijfs. Þessa Velgiornings minnest Paulus, er hañ seger, Gal. 3 Þier erud aller Guds Børn fyrer Trúna á JEsum Christum, Þvi so marger af ydur sem erud skírder, Þier hafed iklædst Christo. Sæ sem nu villde med Athuga yfirvega, hver Giædamunur æ Þvi er,

ad vera Guds Barn, edur Satans Þræll, hann munde under eins faa þeckt, um̃ hvad miked Packlæte hann sie Gude skylldugur, fyrer sinn Skírnar-Dag, og hvad naudsynlegt, jaa omissande, þad sie ad minnast sijfelldlega aa hann. Enn allra hellst eigum vier, ad min̄ast þess Sattmaala sem vier vid Gud giørdum i Skijrnenne: Hann hefur oss helgad og hreinsad fyrer Vatns-Laugena i Ordenu, Eph. 5, þvi eigum vier ecke ad ata oss i Oklarendum Illgyrnes Syndanna, þvert aa móte þeim Sattmaala, vier vid Gud giørdum i Skijrnenne. Postulenn Petur seger: 1 Pist: 3. Ad Skijrnen sie Sáttmále gódrar Samvitsku vid Gud: Pad skil eg so: Ad vor Sattmaale vid Gud i Skijrnenne giørdur, skulldbinde oss til ad varast allt þad ad giora edur fram̃kvæma, sem ordsakar vonda og órólega Samvitsku epter aa: Saa þessa giæter og vill þad giora, fær þvi af Stad komed, þo Hollde og Blóde þike þad Torvellt, þvi han̄ megnar alla Hlute fyrer þan̄ sem han̄ Maattugan̄ giører JEsum Christum, Phil. 4. Da þeir sem Christo tilheyra krossfesta i Krapte Skijrnarennar, sitt Holld, med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Saa sem þess vegna vill alltijd vera Guds Barn, hann skal aa hverium Dege minnast aa þennann Dag, keppast vid ad endurnija sin̄ Skírnar Sáttmála,

fyrer heita Ydran og Lifnadarens Betran: Endurnijast i Anda sijns Hugskots, iklædast þeim nija Manne sem epter Gude er skapadur i Rettlæte og Heilagleika Sannleikans, Eph. 4.

Sá þridie Dagur, hvers vier eiaum sijfelldlega ad minnast, er vor Andláts-Dagur. Þad maa sijnast undarlegt, ad Manneskian gietur nockurn Tijma gleymt Daudanum, þar vier þo daglega deyum, og hvert Augnablik bender oss til Daudans; Þvi meir sem vorer Dagar fiolga, þvi meir fæcka þeir: Þess vegna ætte vort Lijf, ad vera sijfelld Umþenking Daudans: Og hier ad auke er Daudans Von a hverium Dege. Vier vitum ecke nær Hws-Herrann kiemur, hvert um Kvølld, edur um Midnætte, edur nær Haneñ galar, edur ad Morgne, Marc. 13. Hver af oss veit, hvert vær aflifum þennann Dag? Æ! ad vier vissum, edur villdum vita hvad til vors Fridar heyrer, þa mundum vier a þessum Dege þar Vaktan a hafa, Matth. 21. Þess vegna minnunst vier rettelega vors Andláts Dags; Ef vier byrium so hvern Dag, ad vier væntum hann verde vor Sijdarste, og færum so eingu fram a þeim Dege, nema þvi sem óhætt være, þo Daudenn yfirfielle oss i þvi Starfi; Sæll er sá Þión, nær hanns Herra finnur hann so giørande, þá hann kiemur, Matth. 24.

Sa

Sá fiórde Dagur, sem oss er ætijd i Minne ad vera, er hinn sidarste Dagur edur Dagur Allsheriar Dóms. Hañ er eins alltijd viis og óviis sem Daudans Dagur; Hver þorer ad segia fyrer viist, ad Hofud Engelsins Baasuna mune ei kveda vid i Skyum Himens, ædur enn þesse Dagur er wte, 1 Thess. 4. Enn þvilijkann sem hinn sijdarste Dagur fiñur þig, þvilijkañ og so er sig komeun, hefur hann þig fyrer Dóminn, muntu so odlast epter þvi sem þu hefur adhafst i Lijkamans Lijsi, hvert þad var Illt edur Gott, 2 Cor. 5. Þvi þa mun hverium sem einunr Losstijr skie af Gude, 2 Cor. 4. Verum þvi strax i Dag vakande, og varer um oss, bæde fyrer Dauda og Dóme. Og þo ad oss kunne ad sifia (þvi lijka sifiade þær forsiælu Jomfrwrnar) þa voknum i Tijma. Hver einn Dagur, sie vor Vokudagur, hver ein Nott, vor Voku-Nott, so vier gietum teked Vara a þvi, ad hafa vora Lampa tendrada, og vera alvaknader, fyrer eina hreina Ydran og lifande Trw, ædur enn Brwdgumenn kætur aptur, Matth. 25. Giætum nu þessa alls a hinum fyrstu Dogum þessa Sumars; Hveria þo vier afliſum, þa vitum vier samt ei nema þetta verde vort hid sijdarsta Sumar: Eg er viss um, ad marger þeir sem lifdu hinn fyrsta Dag þessa Sumars, munu ei lifa þann seinasta

asta; Enn hvert eg, edur Þu, verdum i Tolu Þinna Fyrre, edur Siidare, Þad veit hverke eg nie Þu, Gud veit Þad: Enn hitt veit eg, ad ockur er Þad eins vijst og ødrum hier vid ad skilia; Þvi vil eg ecke varbwenn vera, helldur nu strax mig i Vagt taka, og fyrer heita Ydran og hræsneslausa Lijfernesins Betran, mier a Veg til Himnarijkes snwa, so ad ef Daude og Domur koma, Þa vil eg mæta Þeim med sama Hugarfare, med sama Andvarpe sem Simeon, med JEsum a Trwarennar Ørmum i Hiartanu, Eph. 3, og med Þetta Andvarp i Munnenum: **Nu lát Þu Drottenn Þión Þinn i Fride fara.** Hver sem nu ydulega og a hverium Dege, hefur i Huga, Þessa fióra Daga, med sannre Gudhrædslu, hanns Dagar verda aller blessader, og betster Þeir siidurstu; Sæll er sá sem **Þess giæter, og giører Þar epter.**

Fleyre eru ad sonnu Dagar Þeir, hveria H. Ritning hefur Þess vegna uppteiknad, ad vier meigum Þeim ecki alldeilis gleyma, helldur Þa i Minni hafa, til ad dijrka med Þeim Gud, og giæta vorrar Velferdar. Þar er 1. Vor **Drottinns Dagur**, sem og sierhvor annar helgur Dagur af Gude og Konunginum heilagre Pionustugiord tileinkadur. **Minnstu ad helga Hvildar-Dagenn Drottinns Guds Þins**, stendur i Løgmalinu. A Þennañ **Dag** minnist Lucas i Postulanna Giørningum, 20. Cap.

Cap. v. 7. er haun seger ad Lærisveinarner hafe komed samann a hinum fyrsta Dege Vikunnar ad briota Brauded. Eirninn sa Johannes i Opinberingunum, Ap. 1. 10. Guds Son a Drottins Dege millum þeirra 7 Liosa-Stiakanna. Þennann Dag eigum vier med hinne stærstu Gudrækne heilagann ad hallda, og a hinum Vikudogunum ad yfervega þad, sem oss a þeim helgu Dogunum i Guds Orde kennt og predikad var: Enn allra hellst helgum vier þennann Dag, ef vier a honum byrium nijtt Lijferne, med, nijrre Viku hvorre, og færum þannig Avoxt af Ordsins Heyrn i Þolinmæde.

2. Sá Annar er Nádarennar Dagur, hvern Paall kallar Dag Hiálpræðisins, 2 Cor: 6 v. 2. Þennann sama Dag nefner Esajas þacknæmilegt Ar Drottinns, Es. 61 v. 2. Fyrer þennann Dag a ad skiliast Tijme Guds Nadar i Evangelio frambodennar, med hverre oss er frambođen Saaluhialpen og Rettlæted fyrer Trwna, vegna Christi Forþienustu: Þetta sannar Paulus, Rom: 3. segiande: Vier verdum út af hanns Nád án Verdskulldunar rettlátir fyrer þá Endurlausn, sem orden er fyrer JEsum Christum, hvern Gud skickade til eins Nádar-Stóls fyrer Trúna i hanns Blóde. Þesse Dagur er sa eine Glede-Dagurenn vor i þessum Heime, ad glediast i og af þeirre Nad, sem Gud hefur oss giefed i

Drottne vorum JEsu Christo. Og ef rett er ealited vort Stand, þaa er þesse eine Fognudur hier stadfestur, enn einginn annar, þad vitnar Paulus, er hann i odrum Stad talar um þennann Hiaalpræðis-Dag, Phil. 4, segiande: Gledied ydur i Drottne alla Tíma, og enn aptur sege eg, gledied ydur þvi Drottenn er nálægur, þad er Guds Naad, er nu i Evangelio fyrer JEsum Christum fram̄boden; Þessa Hiaalpræðisins og Naadarinnar Dags eigum vier so med Packlæte ad minnast, ad vier eige forsomum Naadarinnar Tijma, eige briotum hann af oss, helldur tokum med sann-ydrande og trwudu Hiarta, mote fram̄bodenne Naad, so vier af JEsu Christi Fyllingu medtokum allir Naad fyrer Naad, Joh. 1 v: 16.

3. Sá Þridie, er Dagur Reidennar, hvern Zophonias Spaamadur fyrersagde Gydingum, Cap. 1, er hann spaade um̄ þeirra Eydeleggina, segiande: Sá same Dagur er Reidennar-Dagur, Hrygdar- og Angistar-Dagur, J em seger Paulus, Rom. 2 v. 5, Enn þú epter þinn forstockudu Hiarta safnar þier siálfum Reide uppá Reidennar-Dag, og Opinberunar Guds Rettlætis Dóms. Fyrer þessum Degi eigum vier ad Ottast, og egna hann ecke yfer oss med vijsvitande Jllgyrnis Syndum; Enn lofadur vere Guds Sonur, sem oss hefur frelsad fraa tilkomande Reide, 1 Thess.

x, og med sijnu Blod-Regne slockt Guds Reide-Eld, enn þar a mot hefur hann med sinne Arnan og Forþienustu upptendrad i sijns Fodurs Hiarta eitt Oslockvannlegann Astar-Eld til allra hanns vet-erwadra. Barna, Jer. 31.

4. Sá fiórde Dagur, er Dagur Mótlætisins. Fáer og iller eru míner Dagar, seger Jacob: Þesse Dagur-ninner giarnann sialfur a sig, þvi hann er Guds Bornum nærsta fylgesamur. Ezechias Kongur kallar þad Neydarennar-Dag, 2 K. B. 19. Um hann talar so Job, Cap: 7. Hlítur ecke Madurenn ad vera i sifelldu Stríde á Jørdunne, og hanns Dagar eru sem eins Daglaunara. Þennann Dag eigum vier ad umbera med Þolinmæde, þvi hann er þo alltijd kriddadur med himneskum Huggunum, Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu hugghader verda, seger vor Frelsare, Matth. 5, hann þienar Guds Bornum til hins Besta. Gott er ad hafa Samfielag med JEsu i Hormungunum. Ef Heimurenn hatar ydur, seger hann, þá vited, ad hann hefur hatad mig fyrre, þvi sagde hann vid þa tvo Reisendur til Emaus, Luc. 24. Hlaut Christur ecke þetta ad lída, og inngánga so i sijna Dijrd. Laatum oss þess vegna ei undra, þo vier eins og hann og hanns Elskendur, hliotum fyrer margar Hormungar ad inngannga i Guds Rijke, Act. 14. Hier um

talar Paulus miøg huggunarsamlega, 2, Cor. 1, er hann seger: So sem Christi Piisler yfergnæfa til vor, so yfergnæfer vor Huggun fyrer Christum. Hann liettter af oss þa best giegner, og lijdur ei ad vier freistunst yfer Megn fram̃, 1 Cor. 10, helldur giefur hann þad, ad vor Hrygd, sem stundleg er og liettbær, giører oss eina eilijfa og yfermæta mikla Dijrd, 2 Cor. 4.

5. Er Dagur Medlætesins, edur sem Petur, 1 Pist. 3 v. 10 ad Orde kiemst, Þeir gódu Dagarner, æ þeim er oss eingu sijdur vandlifad, enn þeim bægu, ad ei upphrokum vier oss, edur gleymum Gude, enn festum ofmiøg Hiartad vid þad Stundlega. Pæll reiknar alla Hlute Dreck ad vera, so hann ævinñe Christum, Phil. 3. Brwkum þvi so Tijma Medlætisins, ad vier alldrei sieum varbwner ad taka æ mote Dege Motlætesins. Ef vier nu ydugslega hugsum epter øllu þessu, þa munu oss aller Dagar, bæde a þessu Sumre, og so leinge vier lifum, verda farsæler; Þa mun vor Dauda-Dagur verda oss betre enn vor Fædingar-Dagur, Predik. 7 v. 1, og vor Lijfs-Vegur mun verda sem eitt skijnande Lios, sem fram̃geingur og lijser yfer oss allt til Hædelgis, Prov. 4. 18. Gud himneskur gefe oss og ollum vorum Næungum og Astvinum alla Daga og Stunder farsælar og blessadar, hann læte a þeim

þeim tilkomande Dogum Jacob fra Rætur, og hinn andlega Jsrael blomgast, Es. 27, og innleide oss alla til þess eilijfa Gledi-Dags a Himnum! Honum med Syninum og H. Anda sie Lof og Dijrd, fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen.



# 5. Hugleiding,

## af Hitanum.

Jerem. 17 v: 7. 8.

Blessadur sie sa Madur, sem reider sig uppa Drottenn, og Drottenn mun vera hanns Athvarf, hann er eins sem þad Trie hia Vatne er plantad, og sem utbreidir sijnar Rætur hia einum Læk, hann mun ecke Ottast þo Hitenn kome.

Af þvi Hiteñ er hellst um̃ Sumar-Tijmañ, þvi skulum vier nu taka oss ut af honum andlegar Hugleidingar. Hormungum og Motlætingum Guds Barna er opt i heilagre Ritningu vid Hitann lijkt, bædi i þessare Grein Jeremiæ Spamanns, so og hia Postulanum Petre, er hann seger, 1 Pist. 4, Láted ei þann Brun-

ann

ann Hörmunganna undra ydur. Þú ert einn Skugge þess Fátæka fyrer Hitanum, seger Esajas, Cap. 25. 4, Horfed ei á mig eg er so døck, þvi Sólen hefur brendt mig, seger Brwduren i Lofkvædinu, Cap. 1 v: 5. Eins og Þad Jonæ Spamanne vard æred Omodt, og hann vannmegnadest af Hita Solarinnar þa Lundurenn visnade, sem skijlde hønum Jonæ 4. So er og fyrer Þvi ad Ottast, ad a epterkomande Sumre kunne oss ad verda Omodt af Hita Hormunganna, nema vier med Hiaalp H: Anda i Tijma uppbyggium yfer oss einn Hijsldar-Lund, hvørs Nætur ad grodursettar sieu i Orde Drottinns, og hvørs Lauf-Blod ad sieu H: Anda Hugganer, nærsta skiolsamar til ad bera af oss Brunann Freistinganna. Giætum vier nu Þessu vel og gudrækilega i Verk komed, Þa er eg viss um, ad eins og Gud kom til Abrahams i Dalnum Mamre, Þa Dagurenn var sem heitastur, Gen: 18. Eins mun Drottenn, Þa hønum Þocknast, ad laata oss reyna Hita Motlætisins a Þessu Sumre, vera hiaa oss i Neydinni, oss Þadann wtrickia og oss vegsamlega giora, enn Þo med Þvi Mote, ad vier berum Þann Hita og Þwnga Dagsins retteliga; Þvi skulum vier taka oss vissar Reglur fyrer til Hugleidingar, sem vier nu a hinum fyrstu Dogum Sumarsins skulum læra, enn brwka Þær sijdar Þa a Þarf ad hallda.

Og

Og er hin Fyrsta þesse: Ad hafa ecke Hiartad fast vid Heimenn, eda þad, sem i honum er. Þvi fastara sem toller nidur i Saurinu, þvi meira Kvalræde er ad þola, þa rifed er upp wr þvi; Þvi fremur sem einn hefur fest sitt Hiarta vid þetta Stundlega, þvi meire Atok þarf sa himneske Jsraels Grædare, ad rijfa þad fra holldlegre Ahyggiu. Þar fyrer, þegar oss i Sumar þyker vænst um vort Stand, þa lætum oss vænst þykia um þann, sem so þæga Medlætis Sol giefur, og hofum alltijd Hiartad og þess Elsku a honum fasta. Elsked ecke Heimenn, nie neitt þad sem i honum er, ef nockur elskar Heimenn, i honum er ecke Kiærleike Fødursins, seger Johannes, 1 Pist. 2. Þo Madur villde flija undann Hita Hormunganna i Forsælu Veralldarennar, edur stundlegra Muna, þa er þad til ad jafna, sem einn villde flija undann Hita Solarinnar og kasta sier i brennande Ellds-Glod. Lijdum helldur med Þolinmæde, ad Drottenns Hond þricke oss, so vier af Velgeingnenne ecke ofmiog ugglauser, edur upphrokader verdum. Guds Orvar eru saarbeittar og stijnga, þess vegna dempa þær og holldlegar Girnder. David gaf sig fra Lostasemenne med Bersabe, þegar Barned vard siwkt, 2 Sam: 12 v. 16. Børnen eru afvanen med þvi ad eitthvad ramt er bored a Briost Modurennar; Gud afvenur sijna Trwada

ada' af Briostum Veralldarennar, so kalla eg Vellvstingarnar, med beiskre Krossins Malurt. Po Gud kunne ad giora vorn Sumargáng i einhvern Mata ordugann med Klwngrum Motlætingaña, edur hrioftugann af Þyrnum Freistingaññ, þa giorer hann þad til þess, ad vier skulum þvi helldur lata oss langa til hañs Mykunar og Dijrdar-Hwsa. Skorturenn og Kromen sneru þeim fortapada Syne til Fodur Hwsanna aptur, Lúc. 15. Ástvinar Hormungen rak þa Canversku Konu fra Tyro og Sidon, Matth. 15. So sem Smidurenn hreinsar wr Malminum Soraun med Elldsins Hita, so hreinsar vor godur Gud af oss Sællifisins og Syndanna Saur i Krossins Ofne; Þvi seger hann hia Es. Cap. 48, 10. Siá eg hefe hreinsad þig sem Sylfur, og útvaled þig i Ofne Eymdarennar.

Önnur Reglan er, ad under eins og vier tokum til ad reyna bagt, þa flijum til Christum; Giefum oss i For med ollum þeim, sem þad hafa til Bragds teked, þegar ad hefur þreyngt. Ef vier reynum Heilsu-Brest a siálfum oss, þa verdum samferda hinum Lijkþraa, sem uñgietur hia Matth: 8. Ef reynum Bol og Motlæte a Bornum vorum, giefum oss i For med Fodur hins Twnglsiwka, Matth. 9, og med Jairo, Marc: 5. Ej a Hiwum vorum, þa med Hundrads-hofd-

Hofdingianum, og so framvegis. Pad slær alldrei Feil, ad hia honum faaum vier Bot a ollu Bole. Pvi meir sem Vatned óx i Nóa-Flóde, Þvi meir hæckade Örkin upp; So skulum vær og lata Þau heitu Hormunganna Vorn hefia Ork vors Hiarta til Drottins og honum nalægiast Mijn Augu hef eg til Drottinns, seger David i Psalm: 25. Item i Psalminum 120, Eg hiellt mier til Drottinns i minni Neyd, eg hrópade og hann bænheyrde mig. Hiorturenn af Hundum elltur flijr stundum sialfkrafa til Mannsins; So reka og Mótlætingarnar margan Þann til Christum, sem eckert adur um hann skeitte; Pvi hvert skylldum vier annars flija? Hann rekur eingann Þann fra sier sem til hans kiemur; Hann hefur og alla Hlute nóga, hvad sem oss brestur: Sieum vier nakter, Þa vill hann klæda oss Kyrtle Rettlætisins og Mottle Hialpræoisins, Es: 61. Erum vier hungrader, Þa er hann Þad sanna Lijfsins Brand, sem af Himnum er ofann komed, og Heiminum gefur Lijf, Joh: 6. Erum vier Þyrster, Þa er hann Brunnur Hialpræðisins, so hvor hann dreckur af Þvi Vatne, sem hann giefur, hann mun ei Þyrsta ad eilijfu, Joh: 4. Erum vier fatæker, Þa er hann Gud alleina rijkur sem a Himin og Jord og allt hvad Þar er inne. Erum vier veiker, Þa er hann

Drott

Drottenn vor Grædare, Ex: 15. Erum vied sem villuraafande Sauder, þaa er hann Vegurenn, Sannleikurenn og Lijfed, Joh: 14. Erum vier ecke neitt i neinu, þaa er hann allt i ollu. Leitum þvi Drottenns strax i Mótlætinu medañ hann er ad finna. Es: 55. Hanns Hondur eru sem Segul-Steinn, er med Krossinns Aþreifingu sigrar og dregur vor Jaarn-Hiortu ad sier.

Þridia Reglan; Verum Audmiúker; Medkiennum strax sem Mótlæted kiemur, ad vier sieum þess makleger; Segium med David, Ps. 119, Fyrer góðu vard mier þad Drottenn, ad þú lijtelæckader mig, so ad eg lærde þijnar Rettlætingar. Marger mundu reisa hærra Kambenn, ef Farg Krossinns þrickte þeim eckí nidur, og giordi þaa vanmegna til ymsra Synda, med Hita Hormunganna. Hvar fyrer lijdum vier? Vegna Syndanna, þad er þaa nóg Orsok til Audmyktar, ad vier lijdum fyrer Glæpe vora. Gud straffar vorar heimuglegar Synder med opinberum Krossinns Svipum. Þad er ecke æred gott Merke ad vera fyrer utann Aga Drottinns. Þar slepper ecke Faderenn Barne sijnu órefstu, sem hann stijgur frañ yfer Glæpe Prælsins, einkum siaae hann ei Laafærinaar Von. Enn hvar fyrer? Af þvi hann hefur meire Rækt a Barninu; Hvørn þann Son sem Fadirinn elskar, þann agar hann og tiptar, enn ef vier erum án

Tipt-

Tiptunar, þá erum vier Hiá-Børn, enn ecki Syner, seger Paall, Ebr. 12. Þvi audmiwkare sem vier lijdum, hvert sem þad er Heilsu-Veike ꝏ oss edur Astvinum vorum, Orbyrgd, Grasbrestur, Ovedurꝏtta, edur hvad annad, þvi fliótari verdur Fader Giœdskuñar ad lietta af oss Hrijsinu, og hiꝏlpa oss sem fyrst wr Hita Angistarinnar, og giefur oss ad meiga bwa sijdar vid Forsœlu og Svolunar-Blæ Vellijdunariñar. So hardna nu þesser audvyrdelegu Tigul-Steinar i Ofni og Elldi Mótlætinganna til lifande Steina, 1 Pet. 2, ad þeir verda ecke fyrer nockurt Hormunganna Regn aptur sundur losader.

Fiórda Reglan, epter hvorre vier skulum skicka oss, ef Drottne þocknast ad lꝏta oss reyna Hita Mótlætingaña ꝏ þessu Sumre, er, ad bidia og andvarpa til Guds; þegar þu typtar þꝏ, þꝏ hrópa þeir, seger Esajas, Cap. 26 v. 16. Strax sem Lærisveinarner komu i Lijfs-Hꝏskann, þꝏ hrópudu þeir: HErra hiálpa þú oss, vier forgaungum, Matth. 8. Þvi hafa hiner Gomlu sagt: Hvar ecki er Kross og Mótlæte, þar er eingin rettskickud Bæn. Sꝏ sem er Meistarenn til ad hiꝏlpa, Es. 36. 1, vill þo vera bedeñn uñ Hiꝏlp, og mꝏ þad sijnast minnst verdt ad leggia þad til af siñe Hꝏlfu sier til Hiꝏlpar, ad bidia Gud uñ Hiꝏlp,

Þar hann hefur lofad ad bænheyra a Neydarinnar Tijma, og hanns Myskunseme er sem Regned a Þerre-Tijmanum, Syr. 38. Enn so vier verdum vissare um Bænheyrsluna, skulum vier læra fyrerfram ad bidia. 1. Skynsamlega; So sem oss er ónuissande ad lijda Mótlæted, so er þad og ecki verdt ad afbidia þess Hita, nema logd sie under eins Bænheyrslan i Valld og Vilia Guds. Bidium þvi helldur optar um Þolinmæde og gott Umburdarlynde, Kraft og Styrk til ad gieta þolad Gude til Dijrdar og oss til Velferdar; Enn um Linun og Lietter skal Madur med Fororde bidia, so giorde JEsus sialfur: þo ecke minn, helldur verde þinn Vilie. 2. Bidium audmiúklega, þvi audmiúka Önd agtar Gud mest. Þier hefur alltijd þocknast ad bænheyra þa Audmiwku og Lijtelatu, sagde Judith, Cap. 9. Eg voga ad tala vid Drottenn, eg sem þo er Molld og Aska, seger Abraham, þa hann var ad bidia fyrer Sodoma, Gen. 18. Þier Drottinn, heyrer Nettlætid til, enn vier meigum skamast vor, seger Daniel, Cap. 9. 7. Audmijkium oss under volldugu Guds Hond, so hann upphefie oss a Vitiunar Tijma, 1 Pet. 5. 6. 3. Bidium heitt og alvarlega. Gude misliijkar sw Bæn, sem er aan Andagtar: Hvad stodar þad Bulldur, Varanna, ef, Hiartad þeger, seger Aug-

Augustinus. Þu heyrer ecke til þijn sialfur, og þo villtu ad Gud heyre þig. Vered glóande i Andanum, seger Paulus. Bidium so heitt, ad vier gietum ei betur: Ef Guds Hiarta a ad komast vid, þier til Mysktnnar, af þiñe Bæn, so laat þitt Hiarta komast vid af Hita Bænarinnar. 4. Bidium med stødugre Trú um Bænheyrsluna. Þijn Efaseme i Bæniñe giorer mestann Undanndraatt a Hiaalpinne; Þad sigrade hinn ósigranda Gud i Christo, ad hin Kanverska var so trwud, þvi sagde hann: Mikil er þín Trúa; Trwen er Saal Bænarinnar, sie hun daud, þa er Bænin Ablaus, Bidium i Trúnne eckert efande, þvi sá sem Efasamur er, hann er líkur Siáfar-Bylgiu, sem er æst og uppvægd, seger Jacob, Pist: 1. 6. Hvad hellst sem þier bidied, ef þier trúed, munud þier þad ødlast, sagde Frelsarenn, Marc: 11. 5. Bidium óaflátañlega. Þraakelkne sw, sem Eckian hafde i Bænenne, vann a hinum ranglaata Dómara, Luc: 11. Paulus bijdur ad vier skulum bidia a ollum Tijmum, Eph: 6 18. Breitum epter Jacob, sleppum ecke Gude fyrr, eñ hañ blessar oss, Gen: 32. Vere nu so til, ad Drotteñ laate Hita Mótlætinganna verda oss so heyskañ a þessu Sumre, ad oss take til ad Omæda upp, eins og Jonam, þa grijpum til þessara R[illegible]: Skijum under þennann Fiórkvijslada

Jonæ Lund, sem Gud i sijnu Orde hefur oss plantad til Hlijfdar, vid Ofhita Hörmunganña. 1. Hættum ad elska hid fallvallta Epterlæte Veralldarinnar. 2. Holldum oss einásta til Christum. 3. Verum Polinmóder og Audmiwker. 4. Bidium skynsamlega, audmiwklega, alvarlega, med stødugre Trw, og þad Aaflaatannlega. Hitenn æ Sumrum er af Sólunne, allar vorar Mótlætingar koma fra Gude, enn hann er Fader Myskunsemdanna. Menn flija i Forsæluna undann Hitanum; Flijum, þaa Mótlætis Hitenn Omæder oss, i Naadar Skióled Drottinns, þar er hin hægasta Sæng ad liggia siwkur, þar er ad finna hina bestu Saalar Svolun; Þar er JEsu Sakleysis Abreida; Þar eru Lyknar Lijndwkar Drottinns; Þar er Underdijna Drottinns Elsku og Astar; Þar er Hægende Guds Naadar Fyrerheita; Þar er fullkomenn Bata Von æ øllum Lijfs- og Saalar-Meinum. Gud unne oss ad afstødnum Hita tijmannlegra Hörmunga, ad ødlast hiaa siaalfum sier eilijfann Il og Varma himnesfrar Glede og Huggunar fyrer JEsum Christum, Amen.



# 6. Hugleiding,

## af Sædinu edur Bloomstrunum.

Matth.

Matth. 6. v. 28. og 29.

**Hygged ad Akursins Liliu-Grøsum, hverninn þau vaxa, þau vinna ecke nie spinna; Enn eg sege ydur, ad Salomon i allre sinne Dijrd var ecki so skrijddur, sem eitt af þeim.**

Þad fyrsta Efne til allra Urta, Grasa og Blómstra er Sæded, sem annadhvert fyrer alvitra Raadar Forsjón Guds, sæest i Jordena af sialfu sier, edur þvi verdur af Moñum saad, rotnar so þar um̃ Vetrar Tijmann, enn fyrer lifande Anda edur Lijf, sem Næatturunne fylger, uppvaxa þar af æ Voren adskilianleg Gros og Blómstur, efter hvers eins Sædes Tegund, so þad mañleg Skynseme maa stórum forundra sig þar yfer. Laatum oss þetta gior hugleida, og andlegar Hugleidingar hier wt af draga.

1. Af Grøsunum maa berlega sia Almætte Drottenns, ad hann af þurre og ævaxtarlausre Jordu framleidde i Ondverdu Jardarennar Avexte, hefur þeim so morg þusund Ar, i gegnum so marga kallda og harda Vetrar Tijma vid Magt hallded i Næatturunne, ad saa Avoxtur, sem spratt af Jordune i þvi fyrsta Sköpunar-Verke Drottenns, sprettur enn nu med sama Hætte til sömu Gagns,

semda hentugur. Þetta vitnar JEsus, talande um sijns Fodurs Almætte, Joh. 5. Fader minn erfidar allt híngad til. Hann endurniar Asind Jardarennar, seger David, i Ps: 104. Hann bænheyrer Jørdena, seger Hoseas, Cap: 2. Hann klæder Grased á Akrenum, seger vor Endurlausnare, Matth: 6. Gud giefur Grasenu Líkama, sem hann vill, og hveriu af Sædenu sinn eigenn Líkama, seger Paulus, 1 Cor. 15. Hann koronar Ared med sinne Giædsku, seger David, Ps: 65, og lætur Grased vaxa á Fiøllunum, Psalm: 14. 2. Siaum vier hier af Guds Alvitsku, ad hann hefur skapad so margar Grasategunder, ad eingenn Nattúru-Spekingur hefur enn þar gietad uppgotvad, hvad Margslags Grasa-Tegunder til eru, jafnvel þótt þeir hafe þad stórum Kostgiæft. Hver sem vill athuga allann Grasanna Lit, Løgun og Nætturu, hann mun samþyckia þad David seger, Ps: 104, Drottenn, hversu eru þín Verk so mørg og stór, øll hefur þú þau med Speke til sett, Jørden er full af þinne Myskunseme. 3 Minner Jardar Avøxturenn oss á Naad og Giædsku Drottenns, sem allt þetta hefur giordt, og því ærlega vidhelldur Manneskiunne til Gagns, Glede og Epterlætes. Eg vil giefa þínum Fenade Gras af Haganum, so þier skulud eta og verda sadder, seger

seger hann fyrer Mosen, Devt: 11, og i Ps. 104, seger David: Þú lætur Grased upp-spretta fyrer Fenadenn, og Jurter Mønnu-num til Nytsemdar. So meigum vier nu all-er enn Einusinne yfer þessare Giædsku Drott-enus i Inngange þessa Sumars, segia med Salomone, Prov: 27, Heyed er uppraxed, Grased er fyrer Hende, og Jurternar safn-ast á Fiøllunum, og med þessare sinne giæd-skuriikre Forsión og Fyrerhyggiu, sedur hann allar lifande Skiepnur, og þad allt vegna Mañe-skiunnar. 4. Skulu Grosen minna oss a, ad brwka Gafur Drottenns med gódre Sidseme, Audmykt og Þacklæte, enn ecke med Ofneytslu, edur Drambseme, so sem vær giætum teked þetta hia sialfum oss; þvi annars er fyrer þvi ad óttast, ad Drotten, vegna vors Oþack-lætes og illrar Medferdar a Gafsum sijnum, mune svipta oss sinne Blessan, og ecke einasta þad helldur og lata oss sialfa so straffast, ad a oss framkome þad hann þeim Ogudlegu og Vanþacklatu hótad hefur, hia Esaiam, Cap: 37, ad vier verdum lijker Twn-Grase, þvi, ed-ur Heye, sem er a Ræfrum uppe, sem snar-lega uppvisnar; og David seger, Ps: 37, ad þeir Ogudlegu mune verda snarlega upphoggner sem Gras, Item, seger hann i Ps: 92, Hiner Ogudlegu grænka sem Gras, og þeir Ill-giørda-Menn blómgast þar til þeir asmáder

verda. 5. Skulu Grösen minna oss a, ad vier blómgunst sijfelldlega i ollum Dygdum og Dædum, sierdeiles i Hlijdnenne og Packlætenu fyrer þessar og adrar Drottenns Velgiörder; ad vier, eins og Arons Vondur, Num. 17, berum Mandel, þad er, Avexte sannrar Gudhrædslu, sem er til allra Hluta nytsamleg; þvi sómer ei vel, ad þesser hiner daudu Hluterner blómgest og fære Avoxt, og þad allt oss til Gagns og Nota, ad vier þa sieum eitt avaxtarlaust og kaled Tre, edur þad Tre, sem ber vonda Avexte, hveriu i Elldenn mun kastad verda, Matth: 3, helldur eigum vier ad blómgast sem Pálma-vidur, Psal: 92, og standa þyckvaxner af Avoxtum Andans, Gal. 5, og sannrar Gudhrædslu; so mun Drottenn lijsga Sæler vorar med þeim andlegu Blómstrum, Cant: 2, sinnar Blessunar, Nadar og Myskunar. 6. Skulu vor Sumar-Blómstur, minna oss a þad blessada Blómstred i Saron, Cant: 2, HErrann vorn JEsum Christum, þvi hann mun enn þa a þessu Sumre standa blómlegur fyrer Sálum vorum i Alldengarde sinnar Christne, og Lystegarde sinna blessudu Lijfsins Orda, af hveriu edla Blómstrenu, ad himnesker Hunangs-Dropar hans blessada Blóds, og Forþienustu Kraptar til vor flióta. Þess vegna, þa vier sieum þann hvijta Farva a Grösunum, þa minnunst hán

Var

var færdur i hvijtt Klæde, sier til Hædungar, enn er þo raunar hvijtur i sijnu Sakleyse, so eingenn kunne ad straffa hann um̃ nockra Synd, og hefur so þetta blessada Sælar-Blomstred vort JEsus med sijnum hvijta Liliu Farva, afrekad oss og giefed þad retta Sakleyse Sælarennar, og hvijtann Skrwda Dijrdarennar. Nær vier siæum hinn rauda Grasanna Lit, þæ minnumst æ vora blessudu og raudu Sælar-Ros Endurlausnarann vorn, sem allur vard raudlitur af sijnu Blode, so hann med þvi sama Blode þvæde af Sælum vorum allar vorar blodugar Synder og Illgiørder, og ad vier skylldum ei fyrer Guds Dome þurfa ad standa nakter af Ovirdingu, vegna vorar Blodskulldar, helldur ad Sæler vorar kunne so sem ad synda i Blod-Hafe JEsu Forþienustu, til Sæluhafnar og Fodurlands, þess eilijfa Gledennar Sumars. Enn sæ blæe Litur Blomstranna, skal minna oss æ þad, ad vor Lausnare var blær og blodrisa undann Fiøtrum og Svipum Kvalaranna, vegna vorra Illgiorda, so vier fyrer hanns Beniar skylldum verda heilbrigder, Es: 53. Kieppustum þvi vid, ad kasta fræ oss Saurfarva Syndanna enn taka æ oss Himenblæan Farva, þad er ad breita epter blessudum Lijfs-Reglunum Lausnarans, sem af Himnum ofann til vor komenn er, so vier kylldum gænga i hanns Fotspor, so hañ sijdar

ar meir giore ofs ad einu dijrdarlegu Himen Blomstre, i Alldengarde eilijfrar Paradijsar. 7. Skulu Grosen minna ofs a, hvad veikt og fallvallt þetta stundlega Lijf er, þvi seger David, Ps: 103, Madurenn er um sina Lifdaga, lika sem annad Gras, lika sem Blómstred á Mørkenne, og Esaias Cap: 40, seger: Allt Holld er Hey, og allur þess Góde sem Akursins Blómstur, Heyed uppþornar, Blómstred visnar, þvi ad Ande Drottenns blæs á þad. Þess vegna skulum vier alltijd aalijta, a hvad veikum Fæte þetta vort Lijf stendur, ei upphroka ofs, ei lifa ugglauslega, ei fara Ovarlega med vora Heilsu og Lijf, þvi alldrei veit nær enn Daudanns hvasse Liaar uppskier ofs fra Rotum, og ættum vier þa ad vera so underbwner, ad ofs yrde sasnad i Kornhlodu Drottenns og Bindene Lifendra a Himnum, 1 Sam: 25. 8. Skulum vier laata Grosen miña ofs a hvad Eymdarfullt þetta Lijf er. Grosen mæta Storme og Hretvidre, og þa beigia þau sig til Jardarennar, sem vilie þau flya þangad, hvadann þau hafa sinn Uppruna; so erum vier og morgum Eymdum og Andstreyme underworpner. Gud hefur skapad Bloden og Jurternar til ad bera af Avoxtunum Hrijdernar, og Menn hlada Girdingar krijngum Alldengardana, Grosunum til Skiols. Vernd og Hlijfd hiñs almattuga Guds er vort Skiol og Girding

mote

mote ollum Haska, Slisum og Boda; Skil mier under Skugga þinna Vængia, seger David, Psalm: 17. Mannanna Børn hafa Traust under Skugga þinna Vængia, seg-er hann enn aptur, Psal: 36. Fra honum erum vier i Ondverdu komner, þvi hann hefur skapad, endurleyst og helgad oss: Til hanns skulum vier einnenn flya, og oss hallda i Storm-vidre Hørmunganna, og audmijkia oss under hanns volldugu Hond, enn upphefia oss med Bæn og Bon til hanns Hiaalpræde, huggan-de oss vid þad, ad fyrer margar Hørmungar hliotum vier inn ad gaanga i Guds Riike. 9. Minna Grøsen oss a Upprisu vorra Lijkama; Þvi so sem Sæded rotnar og fwnar i Jorduñe, aadur enn þad skal hentugt til ad gefa af sier Blomstred aptur, eins verda vorer Lijkamer ad rotna og fwna i Jordunne, aadur enn þeir skulu verda hentuger til ad verda Blomstur þeirrar eilijfu Paradysar. Þetta vitnar Pau-lus, 1 Cor. 15, segiande: Þad sem þú sáer, lifnar ecke nema þad deyr, so er Upprisa Framlidenna, þad verdur sád i Forgeinge-legleika, enn upprís i Oforgeingelegleika, þad verdur sád i Vansemd, enn rís upp aptur i Vegsemd. Og sialfur Endurlaus-narenn vor seger, Joh: 12: Sannlega, sann-lega, sege eg ydur, nema Hveite-Kornid falle á Jørdena og deye, blífur þad eine-

samallt, enn ef þad deyr, ber þad mikenn Avøxt. 10. Ad sijdurstu skulu Grøsen minna oss a þeirra Utvolldu Asigkomulag; O! hversu lysteleg eru þau fogru, og allavega litu Blomstur, so Salomon i allre sinne Dijrd, var ei so skrijddur sem eitt af þeim: O! hversu lystelegur mun verda Liome og Fegurd allra þeirra Utvolldu a Himnum! Grøsen lifna og rettast vid, af hægum Varma Solarennar, sierdeilis ef þau fa Vøkvañ med: Þeir Utvolldu hafa hid mesta Epterlæte, af Elsku og Kiærleika þeirrar eilijfu Rettlætes Solareñar, vors HErra JEsu, sem dryckiar þa med Straumum Vellystinganna; Hier eru þær hvijtu Liliur; Þeir Utvolldu klædast hvijtum Skrwda þess himneska Sakleysis og Fegurdar. Hier eru þær raudu Rosir; Þeir Utvolldu eru klædder þvi rauda Rettlætes Klædenu JEsu Christi. Hier eru þau Gros, sem kallast Solseqvia, edur Sólfylgendur, af þvi þau snwa sier epter Solunne; Þeir Utvolldu fylgia epter Lambenu, hvert sem þad fer. Øll Grøsen med sinne Fegurd, so sem dansa og leika fyrer Øndvege Sumarsins; Þeir Utvolldu dansa i kringum Stolenn Guds og Lambsins, a þvi eilijfa Dijrdarennar Sumre; Allskyns Gliédfære hlióma þar. O! þú blessada Blómstred i Saron, HErra JEsu! Gief oss, ad vier a Haustyrkiu-Dege vors Dauda, siñunst

so

so blomgader med Avoxtum sannrar Gudhrædslu og lifande Trwar, ad verduger finnast mættum, ad verda innplantader i þann eilijfa Paradijsar Alldin-Gard. Bænheyr þad, fyrer þijna Forþienustu, Amen.



# 7. Hugleiding,

## af Regnenu.

Es: 30 v. 24.

Drottenn mun gefa þijnu Sæde Regn, hvar med þu munt sa Jordena.

Med Sijdurstu, skulum vier nu draga oss andlegar Hugleidingar af Regnenu, sem er ein hin betsta Gæfa Drottenns, af hanns lijkamlegum Velgiorningum. Og er þad fyrst athugaverdt, ad eg finn i h. Ritningu, gieted um tvennslags Regn, nefnelega: Regn Reidennar, og Regn Nádarennar; Þvi hinu fyrra spaaer David þeim Ogudlegu, er hann seger: Hann mun rigna láta yfer hina Ogudlegu, Leyptran, Ellde og Brennesteine, Psalm. 11. Þvilijkt Reidennar Regn, utvegade Samuel med Bæn sinne, til Straffs yfir Folked, fyrer þad, ad þad hafde beded um Konung, 1 Sam. 12. Þannenn liet Drottenn rigna yfir hina

fyrstu Verolld, i Noa Flode, til ad dreckia ollu syndugu Hollde, og fyrer hid sama hanns Reide-Regn, Ellds og Brennesteins, fyrerforst Sodoma og Gomorra. Vid þetta Guds Reide-Regn ꜳ þad skyldt, þegar honum þocknast ad lꜳta koma Oꜳran Þerreleyses, og ydugleg Vetvidres, yfer Avoxtu Jardarennar, edur Abla Siꜳfarenns, so hann verdur ei verkadur til Notkunar, kiemur so tijdum ꜳ epter Hwngur og Manndaude, sem og skied hefur i voru Lande, og optar enn eitt Sinn. Hin hellsta Orsok til þessa, eru Glæper og Illgiorder Mañaña: Þegar Meñ hafa so lꜳngvaranlega þꜳd og medteked þessar Gꜳfur Drottenns, ad þeir ecke einasta leggia honum þær alldrei Einnsinne vel i Þock, eins og þeim være þetta eingenn Gode, edur og Gud være skylldugur ad gefa so almenna Velgiorninga, þo alldrei fꜳe hañ þar fyrer eitt Ord til Þackar; helldur og þar ad auke, eru sumer so Gudlauser ad þeir lasta þessar Gꜳfur Guds, hæda ad þeim, og formæla; So þad er stor Nꜳd Drottenns, ad hann lætur ecke rigna yfir þꜳ Haale og Elldingum, er þannig forágta og lasta hañs nꜳdarfulla Stiornan ꜳ hanns Skepnum. Lijted þenkid þesser epter þvi, þꜳ Gud slo med Ovedre, fim̃ Konunga Amoritarum, med ollum þeirra Her-Fylkingum, Jos. 10. Edur þꜳ hann hrædde og slo Philistæos, er

þeir

þeir striiddu mote Israels Bornum i Samuelis Tijd, 1 Sam. 7. Edur þa hann slo Egyptalands Avoxtu, Tre, Folk og Fenad, þeirra sem foroatudu Ord Drottenns, fyrer Mosen talad, Ex. 9. Ad eg nu ecke tale um sannferdug Dæme Drottenns Reide-Regns, sem optlega hafa siidann skied; Þetta ætte nu allt ad koma oss i Hug, med Inngange þessa Sumars, ad þad uppvekte hia oss audmiwka Idran, fyrer Vanþacklæte vort, sem so margfalldlega hefur af oss, vid vorn goda Gud, framkomed; So ef skie kynni, ad Drotten hefde oss fyrerhugad ad lijda Refsingar med Oaran nockurre a epterkomande Sumre, fyrer undanngenged Oþacklæte og Illgiorder, ef hann þa kynne ad snwa fra sinne Reide, vegna vorrar Idrunar og Yfirbotar, og lata oss mota siins Sonar Arnanar og Forþienustu, þvi hann er Gud mikellar Þolenmæde og Langlundar Geds, og snarlega ydrar hann Straffsins, Ex. 34. Einsetium oss ad þyggia alldrei so Velgiorder Drottenns, ad vier ecke leggium þær vel i Þock, þvi so seger hann sialfur; Hver hann offrar Þacklætenu, hann heidrar mig, og þad er Vegurenn, ad eg sine bønum mitt Hialpræde, Ps. 50. Og ef vier so gioerum, þa er Gud viis ad stiorna Hofud-Skiepnunum oss so i Hag, ad Jardarennar Avexter verde oss til Blessunar og godra Nota, bæde

fyr-

fyrer oss, og vorar Skiepnur. Gud, fyrer JEsu Christi Skulld, vardveite oss fraa Ofaacklæte og allre Synd, og laate ei koma yfir oss vort forþient Straff, helldur yfirdøggve oss, med siinu blessudu Naadar-Regne!

Nu vilium vier athuga Náðar-Regned Drottenns; þad er og tvennslags, Andlegt og Likamlegt; Um hid Fyrra talar Esajas, Cap. 34, Eg vil blessa þá, og allar mínar Hæder allt um kriing, og láta rigna yfir þá i rettann Tijma, þad skal vera ein Blessunar-Døgg. Epter þessu Naadar-Regnenu laangade Esajam innelega, og þvi seger hann: Driúpe þier Himnar hier ad ofann, og Skyen rigne Rettlætenu, Es. 45. Item seger hann, Cap. 64, Æ! ad þú sundurslíter Himnana, og kiæmer hier ofann. Þetta Naadar-Regn, er siaalfur HErrann vor JEsus Christur, med øllum siinum Naadar Velgiørningum: Þvi seger David, þar hann talar um Christi Hijngadkomu i Hollded: Ofann mun hann koma, sem Døgg yfir Ullar-Reifid, Psalm. 72. Og þetta sagde hann af þvi, ad Christi Getnadur var fyrermyndadur med Naattdøggenne, sem kom yfir Giæru Gedeonis, Dom. B. 6. Þetta himneska Naadar-Regned, yfirdøggvar þaa godu Jørdena, sem er gott og gudhrædt Hiarta, med blessudum Naattdropum himneskra Huggana i Guds Orde,

Orde, sem aller hafa sinn Uppruna fra Þeim vokvamiklu Skyum blessadra JEsu Christi Blódrigninga, Þvi hann hefur sitt Blód til Þess wtgiefed, ad oss skylldu Guds Naadar Fyrerheit predikast, og Þau hafa oll siñ Krapt af JEsu Blóds Uthellingu, og i honum eru Þau oll Jaa og Amen, 2 Cor. 1. Fyrer Þessa himnesku Naadar-Dogg, uppspretta i Mannanna Hiørtum allrahanda Dygdanna lysteleg Blómstur, so sem eru: Riærleike, Føgnudur, Fridur, Langlundar-Gied, Góðgyrne, Góðsyse, Trú, Høgværd, Bindinde, Gal. 5. Þessare Naadar-Døggenne rignde fyrst, Þa Drotteñ sagde vid vora fyrstu Forelldra: Rvinnunnar-Sæde skal i sundurmeria Høggormsens Høfud, Gen. 3. Siidann framepter Olldunum rignde heñe eins og añare Naatt-Døgg, med Uthellingu Fórnfæringanna Blóds, og i Huggunum Fyrerheitanna um̃ Messiam; Enn i Christi Hingadkomu, fiell hin mesta Steipe-Dogg Drotteñs Naadar og Elsku yfir allt Mannkyned. Þar byriadest Dag-Rigning, JEsu Christi naadarfullu Daadsemdar-Verka, og huggunarfullu Kienninga, asamt med Blód-Skwrum hañs Uñskwrnar-Saara, sem voru so sem heilnæmar Morgun-Skwrer, tempradar med Hita og Varma hanns guddomlegrar Elsku til vor. Sw Dagrigning hielltst vid i allre hañs Pij-

nu, og varer enn þar, i andlegann Mæta, i Hiortum allra Guds Barna, fyrer Predikun Orda Drottenns, hvar af oll sorgmædd Hiortu, sa blessada Sælar-Svolun, og Leskíng i Hita Hormunganna. Lofad og blessad sie Nafned Drottenns, og giefe oss æ fyrstu Døgum þessa Sumars, sem alltijd, sijnar blessudu Nadar-Skwrer i Sumar-Giof, sem vokve so rijkuglega Alldingard vors Hiarta, ad i þvi mætte, honum til Epterlætes, enn oss til Farsælldar, uppspretta Blómstur Trwarennar, Urt Bænarennar, Alldine Polenmædennar, Lilia Lijtillætesins, Rós Gudhrædslunnar, Eple Elskunnar, Mandel Þacklætesins, og Dudaim Vonarennar.

Pad annad Drottenns **Nádar-Regn**, er vort nætturlega Regn, sem hann gefur yfir vora Akra og Engiar, Alldine og Gros, þeim til Friósgunar, og Skepnunum til Fódurs og Voxvunar, þvi seger Paulus, Post. G. B. 14, Ad hann veite oss miked Gott, og giefe Dogg af Himne, og frióssama Tijma, uppfyllande vor Hiortu med Fædslu og Fognude; Hvar fyrer og Drottenn lijker sinne Myskunseme vid þvilijka Dogg, hia Hoseam, Cap. 6. **Sú Nád sem eg vil veita ydur, skal vera sem eitt Daggar-Sky um Morguneun, og sem Døgg sú sig árla útbreider.** Og i Cap. 26, seger hann: **Ef þier gánged epter**

min-

minum Setningum, og halldeð min Boð-
orð og giøreð þau, þá vil eg giefa yður
Regn á sinum Tíma, Jørden skal og giefa
sinn Gróða. Um þetta Naadar-Regneð kiemst
Moses so að Orðe, Deut: 28, Drottenn
mun uppliúka sinum góða Fiesióð Himne-
num, til að giefa þínu Lande Regn á sinum
Tíma, og blessa øll þín Handaverk; Og
með þessum Greinum verður oss yfir bevijsað
að það er Naað Drottenns að þacka, þaa
hann gefur Regn aa Jorðena. Þessa ættu þeir
að giæta, aa hveria eg fyrer skomm minnetst,
sem giarner eru að mogla aa móte Veðuraat-
tunne, og jafnvel einne Skwr, ef hun fellur
ecke þeim i Hag, og vita skulu þeir það, að
þo laangvarande Urfelle óniite vora Lijfs-Biorg
og Jarðar Avøxt, þaa orðsakast það vegna
Synda þeirra, og ógudlegs Vanþacklætes;
Jaa, þesser orðsaka það, að Drotteñs naatt-
urlegs Naadar-Regns Brunnar, verða stund-
um so uppþurkader, að ecke rigner i hei-
laanga Tijma, so Jorðen sprijngur i sundur,
af þvi það rigner ecke aa hana, eins og þar
seger hiaa Jeremiam, Cap: 10 4, Þeir seg-
ia ecke Einuginne i sínu Hiarta: Látum oss
óttast Drottenn vorn Guð, sem giefur oss
Morgun-Døggena, og Kvølld-Regneð i
rettann Tíma, Jer. 5. Þess vegna tekur
Norðann-Vinðurenn burt, Regneð, seger Sa-

lomon, Prov. 25. Ja, þad hefur skied, jafn-vel hiaa oss i þessu Lande, sem Drotten hótade Israel, ef hann þverskalladest, og villde ecke hlijdnast sijnum Gude, Ad hann skyllde gefa yfir Landed Rik og Ösku, fyrer Regn af Himne, Devt: 28. Hefur so Himenenn innehallded sinne Dogg, og Jorden sijnum Groda, Hagg. 1. Þaa hañ hefur boded Skyunum, ad ei rigndu þau yfir hina Ogudlegu Es: 5. Stundum hefur hann laated yfir eiñ Stad rigna, enn ecke annann, So einn Akurenn fieck Regn, og hinn annar fieck ecke Regn, eins og Amos Spaamadur ad Orde kiemst, Cap: 4. O! hversu dijrmæter hafa þar orded Daggar-Droparner, þeir, hverium gudlauser Syndanna Prælar, skirrast ei vid ad formæla, þegar þeim þikia þeir ecke falla sier i Hag. Mikel er Naad og Giædska þess millda Myskunsemdanna Fodurs, er samt sem aadur lætur sitt blessada Friofgunar-Regn, rigna so vel yfir Vonda sem Góda, Matth: 5. Fordustum þessara Dæme, giætum helldur ad þvi, ad þad eru fleire enn þusund Blessaner, i hverium Daggardropanum sem Drottenn veiter oss, og dijrmætt þiker Regned aa Veturnar, þegar Jorden er yfir þaken med Svell og Snió. Fylgium þvi Raadum Zachariæ Spaamanns, Cap: 10, er hann seger: Þar fyrer bidied um Kvølldregn af Drottne, so mun Drottenn

gief-

giøra Sky, og giefa ydur nóga Døgg til allo Gróda á Jørdenne. Þá munu vorer Akrar og Enge medtaka Blessan af Drottne, Hebr: 6. Vyrdum sijfelldlega fyrer oss Tilgang Drottenns i ollum Efnum, sem er sa, ad hvert sem oss finust blæsa med edur, mot, hvert sem yfir oss rigner Hagl edur heilnæm Vor-Skwr, þa giorer hann þad allt oss til betsta, og hanns Asetningur er alldrei annar, enn ad bera Umsorgun fyrer sinna Barna tijmannlegre og eilijfre Velferd.

Samlikingar, sem hier wt af mæ draga eru margar og miøg eptertakannlegar, eins og þad, ad Regned er til þess giefed, ad þad skule vokva Jordena; so vokva og hugsvala Nædar Fyrerheit Drottinns hrelldum og ængrudum Sælum sem epter honum þyrsta. Krapa-skwrernar eru ad sönu kalldar, en Solar-varmen giorer þær haagkvæmari til Grodursins; Blessud Næd og Forþienusta JEsu Christi þijder og vermer þær hordu Hret-Skwrer Logmalsins straungu Hotana, fyrer nædarfullann Varma sinnar Elsku og Evangelii Predikunar. Regned ad ofann komed seidest i Jordunne og fyrer Krapt Solarinnar dragast þvi meire Vessar upp i Lopted, sem aptur verda ad frioffsomu Regne; Þad blessada Orded Guds, sem Sonuren wr Fodursins Skaute hefur oss opinnberad, uppdregur fyrer Krapt h. Anda, (hvern Sonur-

enn hefur oss giefed) Yrmar og Vænar Vokva, sem aptur afrekar oss yferfliotanlega Dogg Guds fodurlegrar Myskunar og Velgiorninga. Skwrunum fylgia Skinen a mille, og eptir Skúr kiemur Skin; So blandar og temprar Drottenn opt og tijdum Medlætis Skyn sinna Barna med Motlætinganna Skwrum, þvi Sorgen og Gleden verda opt samferda; Krossinn er alldrei af honum so uppalagdur, ad þar fylge ecke einhvor blessud Lijnkinde med til Vægdar. Regnenu fylger opt Stormur; Motlæt inu fylgia opt Freistingar, so ein Eymd bídur annari heim. Þa siest hvad god og avaxtarsom Jorden er, þa hun fær nog Regn; þa siest hvad eiñ er trwadur, þolinmodur, bænrækenn, kiærleiksfullur og dygdugur, þegar Steipi-Dogg Hormungarennar lemur a honum. Þvi leingur sem einn Hlutur rigner, þvi hreinni og hvijtare verdur hann; þvi leingur sem einn reynist i Motlætenu, þvi fremur hreinsast hanns Lijferne fra saurugum Syndanna Verkum. Grösen þwngud af Regn-Vætunne lwta nidur og svigna; Krossenn giorer Mannenn audmiwkann og kienner honum ad lijtelæcka sig under vollduga Guds Hond. J Regninu leita Meñ Skiols og Hwsa, i Augisteñe leita Meñ Drottenns. Þad er vid Vindenn þurkad, sem i Vætunne voknar; Hugsvolun Drottinns Anda huggar þau af Hormungunum hryggvu Hiortu.

Þar

Þar verda Votu i Regninu sem aadur var þurr Jord; Krossiun kiemur wt þeim Taarunum, sem aadur villdu ei graata sijnar Synder fyrer Gude. Solen uppþurkar þad vota, sem i Regninu fiell; Gud þurkar Sorgar-Taaren af sinna Barga Augum. J Dalverpunum nemur Regned hellst Stadar, i lijtelaatum Hiortum nema Guds Naadar- og Myskunar-Straumar hellst Stadar. Epter laangvarande Votvidre, er Von a laang-varande Liettvidre og Solskine; Epter laangsamlegt Veralldar Volæde, meiga oll Guds Born bwast vid sijfelldu Selar-Skine þess eilijfa Lijssins. Epter nærst aflidenu Vetur er nu komed gledelegt Sumar; Epter allar vorar auma Hiervistar og Hormunganna Vetrar Horkur, mun Dendanlegt Blijdvidre þess himneska Dijrdar Sumarsins bada ad vorum Saalum. Þar mun ei Steipi-Regn Angistarennar ois væta, ei Hagl Heimsins Offokna lemia, ei Stormur Freistinganna aabilia, ei Kulldi Hatursins kiæla, ei Hite Mannraunanna brenna, ecki Svækia Veralldarennar Vastnrs syreralepia, helldur mun af ollum þar komnum, ollu Angre liett verda. Þar kiemur loksins þad kvijdalausa Sumar, sw stoduga Sælan, þad skwralausa Skined, þar eru þau Blomstren, sem alldrei fçlna, sw Sol, sem alldrei undergeingur, þad Lios, sem alldrei slocknar, sa Elskunnar Elldur, sem alldrei kolnar, sw Gleden, sem alldrei dvijnar,

sw Audlegden, sem alldrei Þverrar, sw Heil-brygden, sem alldrei krenkest; Þar er feingenn Klæduadur fyrer Nakleikann, Hite fyrer Kulldann, Svolun fyrer Þorstann; Sadning fyrer Hwngred, Audlegd fyrer Fatæktena, Hvijld fyrer Lwann, Lios fyrer Myrkred, Fodurland fyrer Utlegdena, Frelsed fyrer Fangelsed, Heilsa fyrer Siwkdomenn, Æska fyrer Ellena, Lijsed fyrer Daudann, og eilijf Oendannleg Sæla, fyrer stundlega Eymd og Armædu.

O JEsu! Þu blessada Sumar-Sól! verm Þu oss! Þu blessada Sumar-Liós! upplijstu oss! Þu blessada Sumar-Blómstur! endurnær Þu oss! Þu blessada Sumar-Døgg: svala Þu oss. Medtaktu nu i Naad Þessar vorar lijtilfiorlegar Sumar-Gaafur, og gior Þær Þackuæmilegar fyrer Þijnum himneska Fodur. Gief oss ad wtenda so allar vorar Æfi-Stunder, ad oss sie Þvi vijsara, ad fa ad niota Þess eilijfa Dijrdar-Sumarsins, sem vier erum nær Daudanum.

" Þier eilijfe Gud og himneske Fader, sie Lof " og Dijrd! Þier JEsu Christe! Guds Sonur! " sie Heidur og Þackargiord! Þier o! Þu gode " heilage Ande sie Prijs og Vegsemd. Blessud " sierttu heilog Þrenning, og Þu Odaudlega " Eining i fra Þessu og um alla Eilijfd A-" men, fyrer JEsum Christum, Amen."





# Sio Hugleidingar,

sem lesast meiga i Inngaungu Vetrar.

## I. Hugleiding,

### af Vetrinum.

Ps. 104. v. 24.

Drottenn! hversu eru þijn Verk so morg og stoor, øllum hefur þu þeim med Vijsdoomi nidurskipad, Jørden er full af Guds Myskunseme.

Forsion og Fyrerhyggia hins lifanda Guds, sem hann lætur oss sia og formerkia i allre sinne Stiornan, er so daglegur og sannleiksfullur Vottur hanns Giædsku og fodurlegrar Þolinmæde vid oss Mennina, ad eckert Manns Hiarta, sem þad rettilega og med Gaumgiæfne athugar, kiemst hia þvi ad uppbropa af stærstu Forundran þar yfer med framsogdum Davids Ordum: Drottenn! hvorsu eru þin Verk so mørg og stór. A þessa hañs guddomlega Forsion minner oss næalægur Tijme,

ad hverium vier meigum medkienna, ad hann vijsdomslega hafe þvi nidur skipad, ad vier hofum enn Einusinne uppbyriad einn Vetrar Tijma, epter afstadenn gledilegann Sumar Tijma. Enn hvad er i þessu hellst adgiætande? Guds fodurleg Forsion og Fyrerhyggia, sem berlega hefur auglijst sig ad ollum Hlutum bæde ad Himne og Jordu ad þessu Sumre; Þvi Himininn og Jorden standast fyrer Guds Krapt, seger Petur, 2 Pet. 3. 5. Og so sem hañs blessud Forsion hefur nu ollum Hlutum stiornad oss i Hag, so lætum vort Þacklæte i Inngaungu þessa Vetrar vera medal annars hellst i þvi innifaled, ad yfervega oss til Þacklætis Upporfunar, hvilijka Umsorgun hann hefur bored fyrer oss ad undannfarande, ber enn þad fyrer oss ad yferstandande, og mun bera fyrer oss ad epterkomande Tijmum. Gud styrke oss hier til med sinne Naad i JEsu Nafne, og læte þetta verda sier til Dijrdar, oss til Farsælldar og Blessunar andlegrar og lijkamlegrar, tijmanlegrar og eilijfrar, Amen.

Ef vier viljum athuga Guds fodurlega Forsion vid oss ad undannfornum Tijmum, þa lijtum lengra fram, enn til þeirra Tijmaña sem nærster hiad lidu. 1.) Hvor var Umhyggiu fyrer oss adur enn vier vorum til? David svarar hier uppa og seger: Þin Augu sáu mig þeg-

þegar eg var enn nu ecke skapadur, og þesser Hluter voru aller skrifader i þina Bók, Psalm: 139, Þad er, hann hefur laungu fyrr, ædur enn Grundvollur Veralldarennar lagdur var, uppteiknad og ælyktad i Bok sinnar eilijfu Forsionar, ecke einasta hver vera skyllde sa seinaste Dagur vors Lijfs, helldur hvad yfer oss skyllde koma a hverium Dege, hvenær vier skylldum mindast i Modur Lijfe, hverstu oss skyllde þar lijda, hvenær þadann wtfara, hvad a vora Daga skyllde drijfa i þessu Lijfe; hvert vier skylldum verda Rijker, hvert Fatæker, hvert og hvenær bwa vid Medlæte edur Motlæte, hvad Langlijfer, hvad Skamlijfer vier skylldum verda, þvi sagde hañ vid Kongenn Cyrum, Es. 45, Eg kallade þig med þinu Nafne og nefnde þig, þá ed þú enn þeckter mig ecke, Þad er ad segia, ætlade ad læta þig verda Konung, og þesse Spadomur segia þeir Lærdu, ad hafe vered framflutur af Esaia, 200 Arum fyrer Cyri Fæding; 300 Arum ædur eñ Josias Kongur fæddest, kallade Gud hañ med sinu Nafne, og sagde hann skyllde aptur helga Alltared i Bethel, 1 Reg. 13. So hefur þa Gud i Himnenum fyrer laungu ælyktad, ad Þad skyllde yfer oss koma, sem vier hofum a umlidnu Sumre reynt, hvert oss þokte þad blijdt edur strijdt, þar fyrer er gott ollu þvi ad taka, sem hañ vill vera lata.

2)

2.) Eins bar hann Umhyggiu fyrer oss i Fædingunne, þvi seger Salomon: Aller Hluter hafa sinn vissann Tima, Time er til ad fædast; Þú minn Gud útleidder mig af minnar Módur Life, Pred: 3. Þad Dasemdar Verk Guds Forsionar hofum vier opt mætt sia og tilspyria a ulidnu Sumre, yfer hveriu oll Verollden ma dadst, og falla i Forundran, jafnvel þo þad sie ad litlu lagt, af þvi þad skiedur daglega. Enn hver er so blindur, hann siae þar ecke augliosa Guds Tilhlutan? Hvad gietur Moderen tilhialpad? og flestar a medal vor til þeirra Starfa kosnar, kunna litt ad þvi Verke, so allt fare vel; Hver er þa Lioss-modur Honden hollust? Þad er þijn Hialpar- og Mysknnar-Hond minn HErra og minn Gud! Rachel do af Barnburde, þo var Beniamins Ættlidur sa hellste, Gen: 35. Hversu mikla Asokn mun Diofullenn ecke hafa ad drepa þau Börn i Fædingunne, sem hann gruna munde ad Guds Christne kynn verda til Uppbyggingar? Hversu munde fara ef Guds Forsion sæe þa ei best til? Honum einum er þad ad þacka, ad þa er allt vid Hondena sem medþarf handa Barnenu, og hanns Englar ad taka þa Skiepnu strax i Voktun, hveria þeir eiga ad bera a sijnum Hondum, ad ei steite hun Fot sinn vid Steine.

3.) Oh! hvad nœkvœmlega leit Hanns blessud Forsion til vor i Ungdomenum og Uppfostrenu, þar um meigum vier aller segia med Job, Cap. 10, Þitt Tillit (Adgiætne) hefur vardveitt minn Andardrátt. Einnenn seger David i Ps. 22, Þú varst mitt Hiálpar-Traust, þ i eg var enn nu á minnar Módur-Brióstum, þú ert minn Gud allt i frá minnar Módurkvide, Guds Myskunseme var sw Lioss-Moder sem tok oss fyrst i Skaut, og æred skamt nade Forsion vorra Forelldra, ad vakta oss fyrer e n Diofulsins Skadsemdum, er hañ lagde i Feigenn fyrer oss a Skeide vorrar Æsku. Sa ad minnast þessara Guds Velgiorninga eiga sierhver Tijmanna Umskifte ad upporfa k s, so vier med þess hœttar h. Hugleidingum, þockum fyrer og endum vel þa umlidnu, er i helgum og blessum þa epterkomande Tijma.

4.) Þessare sinne blessadre Umsorgun hefur hann sijdann allt til nœlægs Tijma framhallded vid oss, og enn þa a nærst umlidnu Sumre, breitt vid oss, sem einn elskulegur Fader vid sijn astkiær Born. Hann ol Oss fyrer Sœlum vorum, ad þær skyllde alldrei a Bord bresta, helldur skyllde þeim sijfelldlega svalad verda af hanns Myskunar-Straumum, og þær skylldu verda endurnærdar med þvi himneska Manna, hanns blessudu Lijfsins Orda; Hanns For-

sion

sion var yfer vorre Næringu, Hondlun, Ut-rettingum, og ollu þvi vier tokum oss fyrer Hendur ad giora; hann sende oss Blessan af Himnenum, hann gaf Avoxt a Jordena bæde fyrer oss og vorar Skiepnur, hann sende oss Blessan gegnum Hafed wr odrum Londum, hañ færde og flutte hvern eiñ af oss til þess Stadar, hvar vier sǫfnudum hanns Blessan til vor; hañ flutte oss og sijnar Gææfur med oss yfer allann Hæiska og Torfærur slisalaust Dag epter Dag. Hversu margur hefur yduglega med vodaleg Verkfære hondlad; Ia, og þad stundum miog Ovarlega? Enn alls engenn edur [illegible]og fææer skadad sig: Munde þad vera vorre Varfærne ad þacka? Nei, lææugt fra; helldur Guds fod-urlegre Forsion og Adgiætslu, og þad midt i þvi vier vorum ad modga hann og styggia, bæde med vitanlegum og ovitanlegum Ill-giørdum vorum. Hver skyllde ei komast vid i sijnu Hiarta af Yfervegan þvilijkrar Guds Giædsku og fodurlegrar Fyrerhiggiu, andvarpa af Hiarta og segia: **Minne er eg Drottenn ǫllum þínum Myskunsemdum, er þú læt-ur fram vid oss koma.** Item: **Hvad skyllde eg Drottne endurgiallda fyrer allt þad Gott sem hann hefur giørt vid mig, Lof seig þú Ønd mín Drottne.**

5.) Nu, ef vier athugum þann yfer-standande Tijma, þa byrium vier eiñ Vetur i Dag

i Dag; Enn i hveriu Asigkomulage edur Standе? Eg svara, under nædarfullre Stiornan hinns giædskurijka Fodurs, aller Heiler og Heilbrygder, asamt aller vorer Astviner; vor Hws og Heimile eru eun Þ.n, og allar vorar Skiepnur under hanns blessadre Vernd og Varatekt. Þvi sem hann wtdeilde oss i Sumar, hosum vier safnad i vorar Kornhlodur; blessad sie Nafned Drottens! Hier yfer meigum vier fagna, ad hann er Ouinbreitanlegur i sinne Godgyrne og Myskunseme; eñ ef nockurn brestur, so hann hefur ei allt fyrer Augum sier, Þad hann fyrer sitt Hws med Þarf til Vetrarens, Þæ er gott vid Þad ad una, ad Gud vill so hafa Þad; verde hanns Vilie! vorpum Þvi allre vorre Ahyggiu uppæ hann, hann mun Þvi ollu vel til Vegar koma. Vor himneskur Fader veit, ad vier Þurfum alls Þessa vid; Þad er vel, Þo hann geyme vort Biargræde, Þar til vier Þurfum æ ad halda; hanns hægre Hond er ecke so stutt orden ad hann kunne ecke, og hanns Myskunar Hiarta ecke so hardt, ad hann vilie ecke hiælpa: æ Dege Hiælpræðesins hiælpar hañ oss; Þad er miklu betur geymt hiæ honum enn oss, sem hann ætlar oss og vorum ad lifa af; verum ad eins ænægder med Þad sem yferstendur: Engenn af oss er so orbyrgur ad hann eige ecke Gud ad, og Þad riidur æ mestu,

mestu, þvi nær vier ad eins høfum hann, þá hyrdum vier hverke um Himin nie Jørd, Ps. 73, medann hanns Hond helldur fastlega med ofs, og hanns Armleggur styrker ofs, Ps. 89, þa er nog: þvi þad kiemur ecke af Austre nie Vestre, ecke helldur af Fiøllunum i Eydemorkunne, Ps. 75, sem vid eigum ad biargast vid, helldur kiemur þad ad ofañ fra Fødur Liosanna, Jac. 1, og vor Hiaalp kiemur af Drottne, sem skapad hefur Himen og Jørd: Ef vier ottustum hann, þa lætur hann ofs ecke lijda Skort til lengdar, Ps. 34.

6.) Hanns Forsion mun og lijta til vor a efterkomande Vetre: Engen Ordsok er til þess ad vier berum Kvijda fyrer honum: Sa konunglege Spamadur David, hefur oft, og i einum sijnum Psalme, 26. Sinnum itrekad þesse Ord: Hanns Myskunseme varer eilifflega, Ps. 136. Ecke giører David þetta af Rædleisu, helldur af asettu Rade heilags Anda, so aller skule hafa i Minne þesse Ord a øllum Tijmum og Tijma-Motum: Hanns Myskunseme hefur varad, varer enn, og mun vara, yfer Ungum og Gømlum, Rijkum og Fatækum; Eins og þad Solen hefur skined, skijn enn, og mun skijna, og breitest ecke, helldur gledur sig ad hlaupa sinn Vea, Psalm. 19, so er Guds Myskunseme, hun er hvern Morgun fersk og ny: Þad skal vera min Glede ad giøra

giøra þeim gott, seger hann hiá Jeremiam, Cap. 32, sá Straumur þverrar alldrei, þad Liós slocknar alldrei, þesse vor Gud hann er vor Gud alltíd og æfennlega, Ps. 42. Hvar fyrer kvijdum vier þa Vetrinnm? Þo vort Ástand kuñe i nockru, Ja, i morgu hiá sumum, lijta ut til Vesælldar; hvar fyrer syrg-er þu þa? hvi kvijder þu þa? fyrst Guds Myskunseme varer eilijflega. Þegar eg yrde þess var, ad Gud liete af ad vera myskun-samur, liete af ad stiórna, vernda, hiálpa og blessa, þa villda eg fyrst kvijda fyrer Alvoru, þa villda eg bera mig hørmulega. Þar fyr-er, þar þu, o! Madur, hugsar fyrer Vet-renum, þa seg eins og Abraham: Gud mun siá fyrer Fórnenne, Gen. 22. Eins geck þad Jacob, þa hann kveid fyrer Dijrtijden-ne; hann visse þa ecke ad Gud var bwenn ad setia Joseph i Vollden, so hann giæte hiálpad uppa hañ, Gen. 42. Guds Son-ur spurde: Hvar kaupum vier Braud, so vier fáum þá mettad? enn hann visse vel hvad hann villde giøra: Gud veit nóa Raad til ad hiálpa þo vier vitum ecke. Þesser og þvilijker Þankar eiga ad koma upp hiá oss, þa vier forum ad kvijda fyrer seinne Tijmu-num. Þegar eg hugsa til Vetrarens og hver-su lijtenn Forda eg hefe fyrer mitt Hws, þa ætla eg ad segia med David, Ps. 31. Drot-

 tenn

tenn, hverfu mikil er þín Gódgyrne, hveria þú hefur geymt þeim sem þig óttast. Giædska Guds er opt og tijdum hulen i laangañ Tijma fyrer oss og þar af ordsakast vor Kvijde, og Vijlseme, enn a sijnum Tijma áuglijser hun sig so lystelega, ad þad er Unun ad reyna og siaa. Þu seger opt: Hver mun vellta fyrer oss Steinenum af Grafar-Munnanum? Enn þaa sa Tijme kiemur, sem þu kveidst mest fyrer, þaa sier þu ad Steinnenn er afvelltur. Hverium villtu befala þijna Saal i Daudanum? Þu seger: Mijnum HErra JEsu Christo. Þu svarar rett; Eg befala mína Sál i þínar Hendur, þú trúfaste Gud, seger David, i Ps. 31. Ef vier vogum ad befala honum i Daudanum so dijrmætañ Fiaarsiód, sem Saalen er, þvi vogum vier þa ecke ad aabyrgiast honum i Lijfenu, þad miklu minna er verdt; Þar fyrer, sa Gud sem hijngad til hefur aled Oss fyrer oss, og greidt alltijd daasamlega wr vorum Vandrædum med siñe guddómlegre Speke og Almætte, hann mun og vel sia fyrer voru Raade a efterkomande Vetre; þvi skal eingu kvijda, þo óvænlega þyke aahorfast i einhveriu: Þockneft honum ad laata oss lifa, þaa lifum vier fyrer þad Medal, sem hann finnur fyrer gott ad hiaalpa oss med; Enn þockneft honum ad laata oss deya, þaa deyum

vier

vier Drottne, so hvert vier lifum eda deyum, þa erum vier Drottenns. Kome þad uppa sem koma vill; hann vill þar so hafa þad; þad er best sem hann vill; Læarum oss nægia þad Tilstand, sem Gud setur oss i, hvert sem þad verdur Medlæte edur Mótlæte; spyrium ecke eins og Petur: **Hvad skal þesse?** helldur segium med David: **Eg vil þeigia, og ecke minum Munne uppliúka, af þvi þu giørder þad,** Ps. 39, helldum med Gude, enn móte sialfum oss; siįngium og segium af Hiarta: **Verde ætid hvad vill minn Gud,** edur med Paule, 2 Cor. 12. **Fyrer þvi em eg med gódu Trauste** (þad er, vel ænægdur) **i Breisklei̇kanum, i Forsmánenne, i Neydenne, i Offóknenne;** Item med David: **Befala þú Drottne þina Vegu, og vona á hann, hann mun þvi vel til Vegar koma.** Sa same Myskunsemdanna Fader gefe oss, ad þesse epterkomande **Vetur** verde oss øllum blessadur og farsæll, snwe fra oss allre Olucku bæde Lijfs og Salar, enn sende oss Heppne og Hamingiu til allra Utrettinga vorra, hañ uppfylle alla vora Naudþurft, epter sijnum Dijrdar Rijkdóme i Drottne vorum JEsu Christo, Amen.





# 2. Hugleiding,

## af Tunglinu.

Psalm. 136. v. 1. og 9.

Packed Drottne þvi hann er goodur, og hans Myskunseme varer eilijflega, honum sem giørde Tungled og Stiørnurnar ad stioorna Nottunne, þvi hanns Myskunseme varer eilijflega.

Med Vexte og Byrtu, er Tungled þad Himen-Liós, sem Sólunne er lijkast fyrer vorum Siónum, hvar fyrer Moses seger, ad Gud hafe giørt tvø Stór-Liós, þad stærra Liósed ad stiórna Deginum, enn þad Minna ad stiórna Nóttunne, hvar hann can Esa meinar Sólena fyrer þad stærra, enn Tungled fyrer hid minna Liósed. Gude sialfum lijke eg vid Sólena, og so giorer Malachias, Cap. 4, þvi hann er lœngtum fegre og dœsamlegre, enn allar þær Skepnur, sem hann skapad hefur, jafnvel þo þær sieu allar harla gódar af honum giordar. Enn nærst honum kalla eg ad gœnge sanngudhrædd Manneskia, og þad fyrer þœ Ordsok ad Ritningen kallar

kallar þa Gudhræddu Brwdur Christi, Joh. 3. Born edur Syne Guds, Joh. 1. Erfingia Guds, Rom. 8. Samarfa Christi, 1. Pet. 3. Brædur Christi, Joh. 20. Lide og Lime Christi, 1. Cor: 12. Mustere heilagrar Þreñingar, Joh. 14, og fædder af Gude, Joh. 8. Eiñeñ fyrer þessar Samlijkingar.

Þess vegna er Tungled eitt hid fegursta Lios, ad Solarennar Birta stijgur ofann til þess og yfirlijsir þad; Mañeskian er þess vegna ein veglegasta Skiepna Guds, ad sw blessada Riettlætes Sol JEsus, stie nidur i heñar Holld, og samteingde þvi sijna guddomlega Natturu. Og vilie nockur segia, ad Englarner gange nærst Gude ad Vegsemd og Soma, þa hefur þo Christur ecke þa, helldur Abrahams Sæde uppa sig teked. Túngled er eitt hid miñsta Himen-Tungl, eñ sijnest stort sokum þess þad er so nalægt oss; Hvar fyrer skylldum vier ecke alijta, og athugasamlega yfirvega vort eiged Asigkomulag, sem erum nærster sialfum oss, og giæra þar ad, ad vier, vegna Adams Syndar, vorum ordner su minnst verda og vidurstyggelegasta Skiepna fyrer Guds Augsite, og þad erum vier enn þa af Natturunne til, Born Reidennar, Eph. 2. Syndarennar Þrælar, Joh. 8. Ef vier nalægium oss Orde Drotteñs, þa siaum vier oss, fyrer Christi Forþienustu, nærsta storann Veg

og Virding hloted hafa, þar vier nu fyrer Trwna at hann erum Guds Börn ordner og Brædur Christi, Hebr. 2. Samborgarar Heilagra og Heimamen Guds, Eph. 2. Syner Liossins, Eph. 5. Heilög Þiod, konunglegur Kiennemannskapur, 1 Pet. 2. Og Siaalldur Guds, Zach. 2. O! hvilijkur Vegur og Virding er þetta! Túngled hefur sijna Byrtu af Solunne; ef hun skyne ecke á þad, þa være þad olldunges dimmur Lijkame; Engenn fær vorn Skilning upplijstann i saaluhiaalplegre Þeckingu Guds og hanns Orda, nema Sol Rettlætesins JEsus, sem upplijsir alla Menn er koma i þennann Heim: Hvad Loflegt er, hvad Gøfugt, Astwdlegt og Gott er, i, med, og hia oss, þad er af honum, og af hanns Fyllingu hofum vier þad medteked, og fenged Naad fyrer Naad, þvi i honum eium, lifum og hræaunst vier, Act. 17. Og hann er oss af Gude giordur og giefinn til Vijsdoms, Helgunar og ellijfrar Endurlausnar, 1 Cor. 1. Túngled upplijsir þaa myrkvu Nott: Gott Nafn og Lijferne eins sanngudhrædds christens Manns, er sem eitt Skridlios, epter hveriu hiner adrer eiga ad regla sijnar Giörder. Túngled vex og mijnkar, edur rettara ad segia, þess Liome og Byrta: Christnen Guds hefur fraa Upphafi ymest mijnkad fyrer Ofsoknernar, edur vaxed fyrer naadarfullt Yfirskyn gud-

gudlegrar Hiælpar og Vidurkienningar; Hvad hid sijdara vier eigum hiartanlega ad þacka þeim himneska Liosanna Fodur, ad enn nu til nælægs Tijma vidhelldur hann sinne Christne hiá oss med rettre Kienningu Guds Ords, og reglulegre Tijdkun Sacramentanna; Blessad sie hanns Nafn ad Eilijfu, og giefi ad hun lijde eingva Formyrkvun Offokuanna nie Villu-Lærdomaña á þessum Vetre, helldur ad hun blomgest sem einn plantadur Guds Vijngardur, allt til Veralldarennar Enda! Eckert Himen-Tungl gengur fliotara til Austurs eñ Túngled á mote Solarennar Uppruna; Ferum nu oll vor Fotspor Hugrenninganna, Verkanna og Ordaña á Veg fyrer blessada Rettlætes Solena JEsum Christum, á epterkomande Vetrar-Tijma, og byrium þann Gáng strax i Ondvege Vetrarens, so hann verde alltijd á Vege fyrer oss, oss til Hiálpar og Hamingiu, hvad sem oss áliggur. Hann er Vegurenn, Sannleikurenn og Lifid, Joh: 14. Bidium hann ad greida vorar Fætur fram á Veg Fridarens. Verum hradfætter á Vege Dygdaña og Mañkostanna: Ferum fwser og vilinger til þeirra Stadanna, hvar Guds Ord er kieñt og predikad, þá mun JEsus upprenna oss sem ein blessud Nadar-Sol i sijnu Orde, og ver dofen og Jskolld Hiortu, med sijnum Nadar-Jl, og Varma sinna huggunarfullu Fyrerheita mijk-

unsamlega þijða og verma, og upp af þeim draga heitañ Jdrunar- og Bænar-Bokva og Varma. Túnglsins Formyrkvan ordsakast þar af, að það geingur inn i Jarðareñar Skugga, verður so Jörden midt a midle þess og Solarennar, hvar fyrer hun getur ei a það skyneð: Læatum ei það Jarðneska og Forgeingilega byrgia fyrer oss JEsu Náðar-Lioma: Þegar Hiartað er fullt af Gyrnd og Lysting til þess Jarðneska, þa er það rett formyrkvað, so sw Sæal sier ei Fegurð sijns Lausnara: Allra sijst skylldu vor Hiörtu verða formyrkvuð af Gyrnd og Lysting til Myrkranna Verka, helldur sijfelldlega vera upplijst með skylausum Jðranar Anda: Þegar Túngleð geingur Austur uñ, a bij við Solena; þa beiger það Gang sinn til Jarðarennar, so sem það vilie veita henne Lotningu uñ Leið: Verum alltijð lijtillæater fyrer Auglite Mannanna, enn allrahellst auðmiwker i Auglite Guðs, auðmykium oss under hanns vollduga Hond, so hann upphefie oss a Vitiuuar-Tijmanum. Hvenær sem vær ncalægiunst hann i hanns Hwse under Guðs Orða Heyrn i vorum Bænum og Andvorpunum, þa kemum fram under eins með einn sundurknosaðann Anda, og harmþrwnged Hiarta. Þo Túngleð sie i mesta Maata upplijst, þa er það þo alltijð hælft myrkt og dimt: Ætlunst ei til, að gefa Gude hælft Hiartað vort, enn læta

það

þad hælft vera yfirſkyggt med ſvartre Bwkforg, og Ahyggiu þeſſa forgeingelega Lijfs, helldur elſkum hann af ollu Hiarta, allre Ondu, ollu Hugſkote, Matth. 22. Þvi ecke gietum vier under eins Gude þiönad og Mammona, Matth. 6. Túngled verkar miklar Umbreitingar, bæde i Vedrenu, Sionum, og lijka a Jordunne, og optaſt ordſaka þær Kullda og Mykendaleyſe: Enn Solen þijder þad allt og temprar med ſinni Verkan: Vort tijmannlega Lijf er alldrei ſtodugt, helldur hefur a ſier ſijfellda Velltu, og optaſt til Anſtreymes og Baraattu: Enn JEſus, med ſijnum ſtoduga Nꜳdar Varma og kroftugre Lyknar Verkan, mijker og linar oll vor Bꜳgende, og gefur Freiſtingum og Mannraunum þann Enda, ad vier faum ſtadeſt, 1 Cor. 10. Hann læger Sio og Bylgiur Motlætinganna: Hann þijder Kullda og Hretvidre Heimſins Offokna: Hañ haſtar a Storm Freiſtinganna: Hann ſefar allt Anſtreyme med ſinne Hiꜳlp og Huggun. Drottenn ſiꜳlfur giefi nu, ad Tunglſens Verkaner allar ſtiornest oſs i Hag og til Bleſſunar a epterkomande Vetre, bæde fyrer oſs og vorar Skiepnur, ſo vier verdum af ollum Guds Handaverkum bleſſader: Hann mijke og tempre alla Ovedurattu, og væge oſs fyrer Hagle og Hrijdum, Stor-Hardendum og Land-Plꜳgum, Skruggum, Elldingum og Vatns- edur Snio-Flod-

 um,

um, samt allre annare Oaran. Hann vere lofadur og blessadur fyrer nadarsama Stiornan þessa Himen=Tungls a umlidnu Sumre, og fyrergiefi oss Oþackleted vort og Hyrduleysid, i þvi ad taka a mote hanns Velgiorningum, med skylldugre Vidurkienningu hanns Myskunar og Dadsemda, sem hann hefur i þvi og ollu odru oss Gott giort, og late oss ecke a epterkomande Vetre giallda vors stora Oþackletes med þvi ad svipta oss þvilijkre sinne himnesk re Nadar=Stiornan, helldur vyrdest ad framhallda þeirre somu Nad og Giædsku epter Rijkdome sinnar Dyrdar i Drottne vorum JEsu Christo, hverium ad sie Dijrd og Vald ad Eilijfu, Amen.



# 3. Hugleiding,
## af Myrkrenu.

Joh. 12. v. 35.

Gaunged þa Stund þier hafed Liosed, so Myrkred hondle ydur ecke, hver sem geingur i Myrkrunum, veit ecke hvert hann geingur.

Eg tilbij Liósed og skapa Myrkred, seger Gud fyrer Esaja Spamanns Munn, Cap: 42. Sva er Nadstofun hins alvitra Guds, ad sa myrkve Vetur skal arlega fylgia a epter

þvi

þvi biarta Sumré. J Vör heýrdest þar eitt Gledi Hrop a medal vor: Veturinn er umliðinn, enn Sumared tekur ad nálgast, Cant. 2. v. 11. Enn nu er þad umbreitt i þessa Sorgar-Klogun: Sumarid er hiálided, enn hinn dimme Vetur er ýferkomenn, sem færer med sier margann þann Oheutugleika, er Sumarid ekkert af visse, enn þo sierdeilis Myrkred og Dimmuna; Þar fyrer, so hættulegt sem þad er fyrer hinn Heilskigna, ad ganga i Myrkrinu an Liossins, og so skadvænlegt sem þad er fyrer hinn Blinda an Leidsagnar-Manns, þvi þar sem hinn vantar Dags-Liosed, þar vantar þennann Augna-Liosed, so er þad bædi hættulegt og skadvænlegt fyrer oss ad inngauga þann myrkva Vetur an Lioss og Leidsagnar þess Ords, sem er **Liós á vorum Vegum**, og **Lampe vorra Fóta**, Ps. 119. Upplijsum þvi hinar fyrstu og dimmu Vetrar Nætur med þessu Liose, so munu allar adrar, ef vier þvi sama framhólldum, oss upplijstar verda af himneskum Lioma Guds nadarfullrar Nálægdar, sierdeilis, ef vier þa ei forsomum ad upplijsa þær med Lestre Guds Orda og Bænenne, þvi hiá honum eru ecke **Myrkuren Myrkur**, og **Nótten** má lisa sem **Dagurenn**, Ps. 139. Og hann er siálfur þad **Liós**, i hverium eingen **Myrkur** eru, 1 Joh. 1. Þa gietum vier sagt eins og David sagde: Þú

Drottenn ert minn Lampe, Drottenn mun upplísa mín Myrkur, 2 Sam. 22. 29. Þa Israels Folk var a Ferd i Eydemørkenne, þa upplijste Drottenn þess Nætur-Myrkur med Elldstolpanum, Exod. 13. Hann upplijse og a þessum Vetre bæde þessa Nott og allar adrar med sinne Vernd og Naadar Naalægd, so mununm vier ei þurfa ad Ottast fyrer þeirre Drepsottenne sem i Myrkrunum lædist, Ps. 91. 5. Marger hrædast Myrkuren eins og þeim sie ji þeim meire Hæske bwenn, enn i Byrtuñe; Enn þar eru Tvennslags Myrkur, a hverium Menn skulu hellst taka Vara, ad þau skade þa ecke.

Hin Fyrstu eru Syndanna Myrkur; Hvi hrædast Menn þau ecke? J þeim bwa þo þær Vofur, sem mest er ad Ottast fyrer og orsaka eilijfann Saalar Skada. Enn þetta geingur so andsælis, ad Menn Ottast fyrer þeim Myrkrum, sem ecke færa meira Jllt med sier, enn Byrtan; Hvíad so sem þar er til sw Drepsott, sem i Myrkrunum lædist, Ps. 91, so er þar og til sw Drepsott, sem um Middeiged fordiarfar; enn þau hin somu Myrkur, sem þar mest skada og leida epter sig eilijfa Drepsott bæde Saalar og Lijkama i þeim eilijfu og ytstu Myrkrunum, Matth. 25, þau hin sömu, sege eg, elska Menn meir enn Liosed, Joh. 3, og hafa so Samfelag vid Ofrioffom Verk Myrkraña,

Eph

Eph. 5. Nu ef vier viliúm ad þesse nijkomne Vetur verde oss blessadur og farsæll, þa ydrunst þeirra Myrkranna Verka, sem vier giordum a umlidnn Sumre, ad ei kome yfer oss i Vetur þad David spaer þeim Ogudlegu, segiande: Þeirra Vegur mun verda harla myrkur og sleipur. Item seger Job, C. 12. Ad Gud láte þá fálma so sem i Myrkre, þad er: Þeir ana rædlauslega fram, þvi hann slepper af þeim sinne Verndar Hende Guds Englar erú Englar Liossins, wtsender þeim til Þenustu, er Sæluhiælpina erfa skulu, Ebr. 1. Enn Hreiner þeir flía Synd, ef siá, so sem Bíflugur Reiknum frá. Þeir sleppa sinne Voktun af þeim, sem segia hid Vonda Gott, og hid Goda Vondt, sem giora Myrkred ad Liose, og Liosed ad Myrkre; Enn ef Gud tekur fra oss sijna Vernd og Voktun sinna H. Engla, hversu biart mun þa verda i kriijngum oss? Mun ecke hann sem er Myrkra Stiornare þessa Heims, Eph. 6, sæta þvi Tækifære, og kappkosta ad koma oss i þau ytstu Myrkur. Þess Vijsa Augu eru i hanns Hofde, seger Salomon, Eccl: 2. 14, enn Dærenn geingur i Myrkrenu, þad er, blindt æfram i Andvaraleysinu og Myrkrum Syndanna og Blindne Holldsins. Einsetum oss þvi ad læta vor Verk og allar Athafner a þessum Vetre vera i Gude giørdar, Joh. 3. 21. Eg em Liós Heimsins

seger

(seger JEsus, hiá Joh. 8. 12.) hver hann fylger mier epter, hann skal ei gánga i Myrkrunum, helldur skal hann hafa Liós Lífsins. Enn hvernig er hann Lios Heimsins? Auk þess, að hann með Liose sinna blessudu Orða upplijste alla Menn, sem koma i þennann Heim, Joh. 1. hefur hann lijst oss með sijnu blessaða og heilaga Lijferne, ecke einasta að votta þar með sitt syndlausa Lijferne (þar eingenn kunne að straffa hann um nockra Synd) edur með sine Hlijdne uppfylla vor vegna Logmaalið, helldur einnig er hann Lios Heimsins til þess, að hanns Lijferne sie oss til Efterbreitingar; þar fyrer seger Petur, að hann sie settur oss til Fyrermyndar, að vier gaungum i hanns Fótspor, 1. Pet. 2. þvi sagðe hann við Lærisveinana, þa hann hafðe þveigeð þeirra Fætur: Eg hefe giefeð yður Epterdæme, að eins sem eg giørde yður, so skulud þier og giøra, Joh. 13. 15. Þess vegna, ef vier setium oss hanns Dæme fyrer Sioner, til Efterbreitingar, þa erum vier þau rettu Liossens Born og Dagsins Syner, 1. Thess. 5. þa gaunaum vier ecke i Myrkrunum, giorum og eige Myrkranna Verk, helldur frelsunst fra Verdlaunum Myrkranna. Skeitum þvi ecke, þo oss sijnest þeir Oguðleau komast vel af með sitt Myrkra Athæfe, þvi þessa Heims Tijme er þeirra Tijme og Magt Myrkranna, Luc. 22.

Hvað

Hvad seger Esajas, Cap. 29. 15. Vei þeim sem søckva sier diúpt frá Drottne, ad hylia þeirra Asform, og hverra Verk eru Myrkranna Verk, og segia: Hvør sier oss? hver þecker oss? helldur tökum Vara a siálfum oss, ad ei gaungum vier i þeirra Fot-Spor. Lætum helldur vort Lios lijsa fyrer Mönnum, so ad þeir siae vor Godverk, og dijrke vorn Gud, sem er a Himnum, Matth. 5. Þar munu Liossens Englar vera hia oss og vardveita oss fra Myrkrana Hofdingia þessa Heims, og ollum hanns Slægdar og Viela Myrkrum; So munu vor Vetrar Myrkur verda af þeirra dijrdlegre Nalægd og himneskum Lioma upplijst.

Hver sem nu þessa giæter, hann þarf ei ad kvijda fyrer hinum odrum Myrkrunum, sem askyggia opt Guds Born i þessum Heime, sem eru Hørmunganna Myrkur; A þeim skulum vier eirnin Vara taka, so ad ei giorum vier Christi Kross ad Næningians Krosse. Gud veit hvad uppa kan ad falla fyrer oss a epterkomande Vetre! Skied getur ad vier missum vora Heilsu, og þa þyker morgum askyggia, þegar so sellur. Falla ma, ad vier annadhvert reynum bagt a vorum Astvinum, hvad morgum sellur ecke liettara, enn þo a þeim siálfum læge, þad a þeirra Astvinum liggur, edur kannskie vier hliotum ad sia a Bak þeim, og missa þeirra

yndiſlega Sambwd; þat er ecke ſtundum lein-
ge þeſs ad biijda, ad Elldur, Vatn, Vinds-
ur, edur onnur voveiſleg Tilfelle granda vor-
um Eignum edur Skiepnum, og hvør kann
þad allt ad upptelia, ſem ad vill ama, þegar
Vetrar Tijme Hormunganna yfirſtendur? Ve-
rum þvi eij varbwner! Kannſkie eitthvad af
þeſſu hitte oſs. Hvør mun nu upplijſa þeſſe
Myrkur? Hvada Sol edur Lios mun þeim
afvenda? Men brwka Lios i Hwſuin a þeim
dimma Vetrar Tijma; Enn hvad ſeger Gud
fyrer Davids Munn: **Par mun upprenna
Lioſed fyrer þá Frómu i Myrkrunum**, Pſ.
112. Hvad fyrer Myrkur meinar hann hier?
Hann meinar Hormunganna Myrkur; Enn
hvada Lios meinar hann? Hann meinar Lios
gudlegra Huggana, þvi ſeger hann i odrum
Stad, Pſ. 97. **Par er ſád einu Lióſe fyrer
þann Rettláta**, þad er, hann er alltijd glad-
ur i Motlætinu, af þvi, ſa Gudhrædde og
Frome huggar ſig alltijd vid Guds Myſkun-
ſeme. So er þad þa almáttugur godur Gud,
ſem upplijſer Hormunganna Myrkur med Rad
og Hiälp, og burtrijmer þeim med ſijnum
Huggunum. Þo Lijkamen ſie i Egyptalands
Myrkrum ſtaddur, þa er Sælen og Hiartad
i ſijfelldu Goſen Lande himneſkrar Huggunar
Byrtu, Fridar og Fagnadar i heilogum An-
da, Rom. 14. Pegar Guds Huggun er
naa-

nalæg, þvi hennar Lijf er fólgeð með Christo i Gude. Vier kieppustum við að vera byrger af Liófe under Veturenn, til að upplijsa Myrkren med, sofnum nu under Veturenn Huggunar Lióse Guds Naðar Lofana i vor Hiortu, að upplijsa með þeim Myrkur Angistarennar, ef þau kunna að koma yfer ofs, so að Liós Huggunarinnar yfergnæfe hiá ofs Myrkur Sorgarinnar, Pred. 2. og vort Hrygðar Myrkur verde að Lióse, Es. 42. Þetta befalar ofs siálfur Faðer Liósanna, Jac. 1. er hann seger fyrer Munn Esaiæ, Cap. 30. 10. Sá sem geingur i Myrkrunum (það er, i Hörmungunum) og ecke hefur Lióseð (það er lijkamlega Huggun) hann skal vona á Drottenn, (það er, vænta hanns Hiálpar og Aðstoðar.) Item seger hañ enn aptur, Cap. 58. Þitt Lios mun upprenna i Myrkrenu og Þokan (Mótlætinganna) mun vera sem Middegeð.

Hugsum epter þessu, ef ofs kuña að mæta nockrar Mannrauner, á þessum Vetre, giætum að, hvor það er, sem leggur þær á ofs, það er siálfur Gud; Drottenn deyder og lifgar, 1. Sam. 2. Drottenn gaf, Drottenn burttók, sagde Job, þegar þo siálfur Diofullenn hafde giort honum Skaða og Skapraun; Enn Job visse það gat ei skied nema fyrer Guds Tillatseme, og þar við huggade hañ sig. Guds Alag er ecke Sverd

 Dom=

Dómaranns, helldur Hrïjs Fodursins; Þvi hvørn þann Son, sem Faderenn elskar, þann agar hann og typtar, Ebr. 12. Giæt og ad siálfum þier, hvilijkur þu ert, sem lijdur, þu ert ecke Myrkranna Barn fyrer þad, þo þu siert i Myrkrum Sorganna staddur; helldur ertu Bróder Christi, Hebr. 2. Sonur og Barn Guds, Joh. 1. Ja, þu ert Mustere H. Anda, 1 Cor. 3. Þu ert ecke kastadur fyrer Fætur Dioflanna, þo þier sie kastad i Mara Vatn Mótlætingaña, helldur ertu wtbryniadur med Herlide Engla Drottiñs, Ps. 34. Guds Hond gietur um̃breitt þijnum Sorgar Myrkrum i Liós Gledennar þegar hann vill, Ps. 77, hann giører þad og so þegar hanns Tijme er komenn og þier giegner betst, og þo þier kunne ad siinast, sem hanns Huggunar-Liós sie aldeilis fyrer þier wtsloked, þa vert viss um̃, ad vegna sinnar elldheitu Elsku til þinnar Velferdar, typtar hann þig og agar so þu skuler alldrei tapast ad eilijfu, þvi nær vier dæmunst, þá verdum vier af Gude typtader, seger Postulenn Paulus, uppa þad vier fordæmunst ecke med Heiminum, helldur uppa þad, ad vier, ad Hormunganna Myrkrum afstødnum, ødlunst fridsamlegañ Avøxt Rettlætisins, Hebr. 12, 11. Þu munt ecke helldur verda einn a Ferd i þeim svarta Sorganna

anna Kedrons Dal; Aller Guds Astvíner eru hier samferda, hverra Vega=Bref þar i gieg= num þannig hliódar, Act. 14. Fyrer margar Hrellingar hliótum vier inn ad gánga i Guds Rike, Jæ, siælfur Strijds=Forin= enn vor JEsus Christur, hlaut þetta ad lijda og inngæanga so i sijna Dijrd, Luc. 24. Og ef hann hlaut lijda fyrer adra, þvi þæ ei þu fyrer siælfann þig? Hvernig gietur þar dimt vered, sem Sólen er æ Ferd? Hvernig gietur hann vered nema med gladværre Sam= vitsku, sem veit ad Rettlætis Sólen JEsus er i Før med hønum, þo hann gánge i myrk= vum Dal og Daudanns Skugga, hrædest hann eingva Olucku, Ps. 23. Nu er þad viijst hañ skilur alldrei vid þæ, sem bera hañs Kross þolenmódlega, hversu þwngur, hversu sær sem þeim finnst hann ad vera, þvi hier eru hanns Fyrerheit vid Hondina, sem alld= rei bregdast ad Eilijfu. Hann seger hiæ E= sajam, Cap: 41. Ottastu ecke, eg hefe þig endurleyst, nær þú geingur igiegnum Vøt= nen, þá vil eg vera hiá þier, so ad Straum= arner skulu ecke dreckia þier. Item fyrer Davids Munn, Ps. 91. Eg vil vera hiá hønum i Neydenne, hønum þadann útrick= ia og hann vegsamlegann giøra. Þessum og ødrum þviliijkum heilagrar Ritningar Hug= gunar Lióssum, eigum vier ad safna æ hinum

 fyrstu

fyrstu Vetrar Døgunum. Guds Elldur og Lamparner mættu alldrei slockna i Musterinu: lætum þesse Liós himneskra Huggunar Ellda h: Anda ætijd loga i vorum Hiortum, so þau uppliyse Sorga Myrkren vor, þa þau koma yfer oss. J Myrkrinu hvijlast Menn og sofa. J Hormungunum hvijlast Menn af Syndañá Jdiu, þvi hvør hann lidur á Holldinu, sá lætur af ad syndga, seger Petur, 2 Pist. 4. 1. Þegar Myrkrunum linner, þa kiemur Liós og Byrta a epter. Eins og Skined kiemur epter Skwrena, eins og Sumared kiemur epter þennann Vetur, eins giefur Gud, ad afstodnum øllum Vetrar Horkum vorra Mótlætinga, oss eitt gledilegt og hlijendafullt Fagnadar Sumar i Himninum. So er þá Mótlæting þessara Tíma ecke verd vid þá Dírd, sem sídar mun fram vid oss koma, Rom. 8. Hann giefe oss ad beriast gódre Barattu, behallda Trwnni og gódre Samvitsku allt til Enda, 2 Tim. 4. Hann vardveite oss fra vondum Myrkranna Verkum og styrke oss med Naad sijns Anda til ad iklædast Herklædum Liósins: Hann upplijse Myrkur vorra Hormunga med Lióse sijns Hialpprædis, og Huggana. Hann giefi ad vier, ad afstodnum Daudans Myrkrum, odlustum eilijft Fagnadar og Lijfsins Liós i Himninum! Honum sie Lof og Dijrd fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen.





# 4. Hugleiding, af Nóottunne.

Psalm. 77. v. 3.
Eg leitade Drottenns a minnar Neyd-ar-Dege, mijn Hond var um Nottena wtriett, og liet ecke af, mijn Sal villde ecke lata sier hugsvala.

Nel og vijsdomslega hefur hin guddomlega Speke þvi nidurskickad sem ollu od-ru, ad so sem hun gaf oss þann biarta Dag til vors Erfides og Utriettinga, so gaf hann og einnig þa dimmu Nott til Hvijldar og Hressingar: David seger, ad Villudiren hreise sier hellst á Nóttunne, Ps. 104, ecke gio-ra þad nema hin grædugu Villudijr Agyrn-darennar, ad brwka og lata brwka til Erfi-des og Onædes oduglega þann Part Næt-urennar sem til Svefnsins þarf, hverra My-skun ad er sem þess Grimma, seger Salo-mon, Prov. 12, og asælast sijna Þienara med Ofrijke, og gleyma Drottne, Ezech: 22. Slá þeirra Húd af þeim, og þeirra Holld af þeirra Beinum, Mich: 33, þeir giefa ecke

sier sialfum Ro, hvad þa odrum? Davids Hond er lijka okyrr, og wtrett alla Nottina, enn til hvers? Ecke til ad hremma forgeingelegt Goß og Maura, helldur Andlegt og Oforgeingelegt. Ja, til ad bidia og andvarpa til Guds, til ad grꝏta sijnar Synder og Misgiørder: **Hanns Grátur er hanns Fæda Dag og Nótt**, Ps. 42. Anna þionade Dag og Nott; Enn hverium? Gude. Med hvada Starfe? med Fostum og Bænahallde, Luc: 2. Vel sie þeim sem væter um̃ allar Nætur sitt Legu-Rum i Tꝏrum eins og David. Þo ecke sieu Dwrarner hinns ꝏngrada Manns aller lꝏnger, þa eru þeir ynde sleger og holler, þegar hann ꝏ mille þeirra er ymist ad ꝏkalla Gud, edur ad lofa Gud. Þad er Fꝏvitska sumra Manna edur kaunskie Edle þeirra, ad þeir hrædast eitt hvad i Myrkrenu, er þeir ecke hrædast i Byrtunne: Enn ecke veit eg hvad þꝏ er fremur ad ottast, þvi eins eru Hrecker og Vijgviel hinns vidurstiggelega fwla Anda oss osijneleg ꝏ Dagenn sem ꝏ Næturnar. Enn sa einaste mꝏ vera bæde Myrkfælenn og Liosfælenn, sem veit sig ad vera i Reide Guds, og Oforlijktann vid hann, hvers Samvitska lꝏtur hann hverke swpa Sætañ nie sofa Værañ, þvi þeir **Ogudlegu flía þo engenn ellte þá**, Prov. 28. So leinge sem Samvitsku Ormurenn, og Samvitsku Elldurenn lifer, Es. 66.

66, sesur ecke sea Ogudlege med Værd. Eñ villtu, Vinur Guds, læra, hvernig þu skallt so uñ þig bwa, bæde a þessu Kvollde og odrum, ad þu þurfer fyrer engum Haaska, engum illum Anda ad ottast, hverke vegna þiju nie þinna, helldur hvijlast og sofa med Værd under Vængia-Skiole hins lifanda Guds, Ps. 91. þvi hann mun ecke sifia, og ei sofa sem vardveiter Jsrael, Ps. 121, þa skalltu a hveriu Kvollde enda Dagenn og byria Nottena med h: Hugleidingum. Til Dæmes, i þvi Dagurenn endar og Notten byriast, skalltu hugleida ad sea nærstlidne Dagur sie einn sea Tijme, af hvers Brwkun þu verdur Reikning ad standa, a sijdarsta Dege, á hverium aller muñ nú ødlast epter þvi sem þeir hafa adhafst í Líkamans Lífe, hvert þad er Illt eda Gott, 2 Cor. 4. Vid so med saum, enn þo kroptugum Ordum, hvad sem þu ert ad starfa, Gud Fyrergiefningar bæde a þvi sem þu hefur forsomad Gott, og giort Vondt a þeim Dege, og lofa hann fyrer sijna Naad og Polenmæde yfer þier. Enn hafer þu giort nockud sem þu visser Gude til Þægdar, þa þacka honum fyrer þad, ad hann verkade þad med þier, og under eins fyrer hanns Vernd og Velgiorder; Þetta getur þu giort og hugsad, þo ecke ende þitt Erfide med Degenum. Hier ad auke skalltu befala strax under Nottena, allt þad þier

vidkiemur, bæde Saal og Lijkama, Menn og Skiepnur, Hws og Heimile, under Vernd og Varatekt Guds almættugs, og hanns h: Engla. Þetta skalltu giora, hvert sem Þu ert nalægur eda fiarlægur Þijnu Heimile, hvert sem Þu ert Yferboden eda Undergiefen. Þegar lijdur ad Þinne Hvijldar-Stund, skalltu alldrei læta undannlijda ad lesa edur læta lesa openberlega Guds Ord i Þijnu Hwse, æ ollum Þeim Kvolldum sem Þvi verdur so vidkomed, ad aller i Hwsenu giete med Andagt epter Þvi teked, edur velflester, so Þu Þar med locker inn i Hws Þitt Þann sem sagt hefur, Matth. 18. Hvar sem tveir eda Þrír eru samannkomner i mijnu Nafne, Þar vil eg vera midt á medal Þeirra. Med Þessu Mote fyller siælfur Gud bæde Þitt Hiartans og Heimiles-Hws, med sinne Nædar Nærlægd, og Fylkingum h: Engla, so ad Dioflullenn og hanns Andar fæ Þar eckert Plaats edur Rwm ad leinast i, Þier edur Þvi til Skada og Olucku; Andvarpa so jafnframt i Hiartanu med Þeim tveimur sem til Emaus geingu, Vertu hiá oss HErra, Þviad kvollda tekur og á Dagenn lídur, Luc. 24. Þegar nu sæ Tijme kiemur ad Þu villt leggia Þinn Lijkama til Hvijldar, minnstu Þæ alltijd, og læt Þad ei gleymast, æ Þitt sijdarsta Æfe-Kvolld, æ Þijna Grof, æ Þinn sijd-

arska

arſta Dauda-Svefn, ſem þu' ei veitſt nema verde ſœ hiñ ſame, hverium þu villt þœ'ſofna; hvar fyrer þier mun þykia Raad, enn ecke Oraad, ad leſa alltijd eina ſtutta Andlaats-Bæn, edur Andlaats-Vers. œ hveriu Kvollde, ſo ad Saalen ſie i Hende Drottens, Spek: 3, hvad ſem uppœ kann ad koma, þvi þu veitſt ecke hvert þier mune audnaſt af þeim Svefne aptur ad vakna. Váraſtu ad hafa nockurt Oſkickanlegt, Otilheyrelegt Tal i Sæng þinne, enn ſijdur Ogudlegt. Kannſkie þier audneſt ecke optar ad tala, og er þad ecke gods Vite ad hafa lagſt wt af ad Kvollde med illann Munnſofnud, enn ligia kannſkie daudur ad Morgne. Ad ſijduſtu þœ þu hneiger þitt Hofud ad þijnu Hægende til Svefns, þœ upplypte ſier þijn Saal og Hiarta med hinum lijfkroptuguſtu Andvorpunum, uñ allar Lijfs og Saalar Naudſyniar bæde þijnar og þinna; þœ ſkal fyrer Alvoru þinn Ande hitna i Bænenne; leitaſtu vid ad vera ſœordur, enn þo gagnordur. Vittu fyrer vijſt, ad Guds Englar eru þœ vid Hondena, ad taka œ mote þijnum Bænum, og bera þær i Himiniñ, Job. 12. Jœ, ſiaalfur JEſus leggur þœ vid ſitt Myſkunar Eyra, og bidur jafnframt med þier, og fyrer þier. Bid þu hann ad vera under þijnu Hofde eins og andleganu Jacobs Svefn-

 Stein,

Stein, Gen. 28. Vid hann ad lata sijna vinstre Hond vera under Þijnu Hofde, enn hanns hægre Hond ad umfadma Þig, Loff. 2. Vid ad Saalen Þijn fære ad hvijlast i Þeim yndeslega Verndar og Myskunar Fadme sijns Lausnara. Kome ad Þier Svefn-Þijngsle, Þa bid med sem færstum Ordum og mestu Giætne; vara Þig ad ei verde Þier Mismæle, bid Þa Guds Son ad taka vid ad bidia, Þar Þu gietur ei leingur beded. Hafdu helldur heilaga Þanka, heilagar Hugleidingar, vertu ad iunynda Þier Giædsku Drottenns, vid Þig og Degenum framkomna. Imyndadu Þier Sælu Himnarijkes, Kvol og Pijnu JEsu Christi, og hanns elldheitu Elsku til Þijn, og so framveiges, Þar til sialfur Gud svæfer Þig i sijnu Verndar Skaute, allt eins og Moder sitt Briost Barn. Þa Þu a Næturnar vaknar, so vakne Þijn Lofgiord til Guds, sem Þa vaker yfer Þier; vakne Þijn Andvarpan til hanns, ad hann vijke ei fra Þier nie hanns Englar; so hvert Þu vaker edur sefur, Þa siertu Drottenns. Ef Þig dreimer, ad Þu Þykest giora edur tala Þad sem er syndsamlegt edur saurugt, so bid Gud strax sem Þu vaknar ad fyrergiefa Þier Þad; Þo ecke giæter Þu ad Þvi giort, Þa var Þad samt Synd; Bid hann og ad vardveita Þig fra, ad modga hann bæde i Svefne og Voku. Ef Þu hlijder Þessu, Þa mattu fyrer vijst

viist vita, ad Gud bijr i þijnu Hiarta, og þu fær þad strax sem Jacob fieck, er hann svaf um̃ Nottena i Bethel, Gen. 28, þa Gud sagde vid hañ: **Eg vil vera hiá þier og blessa þig:** Hann mun þa upplijsa med siñe Naaþ lægad, sierhveria þijna Nott, eins og hañ upplijste Nottena fyrer Israels Folke, þa þad var ofsokt af Pharaone, Exod. 14. Ef þu bidur og hugsar til Drottenns alla Nottena, eins og Samuel, i Cap. 15, þa mun hann vekia þig i hæfelegann Tijma; og sier þu þad sialfur, hvad yndeslegt, gott og saluhialplegt þad er, ad vera þannig bæde svæfdur og vaktur af sialfum Gude: Þu matt þa segia eins og Brwduren i Loffvædenu, Cap. 5. **Eg svaf, enn mitt Hiarta vakte,** edur sem David i Ps. 3. **Eg lagde mig og svaf, eg uppvaknade,** þvi **Drottenn vidhelldur mier.** Ef þu Barned Guds vaker og sesur hveria Nott med þvilijkum Þanukum og Andvorpunum, þa þarftu ecke ad kvijda þeirre Drepsottenne, sem i Myrkrunum lædest. Eg vil tala þa til þijn med Ordum Salomonis, Prov. 3. **Legger þú þig, þá muntu ecke óttast, þú munt hvílast og þinn Svefn mun sætur.** Gud himneskur blesse og farsæle oss bæde þessa Nott, og allar adrar a þessum Vetre, so þær verde oss Rosamar til Hvijlldar og Endurnæringar. Eg sagde fyrer skommu, ad Menn skylldu a hverin

Kvollde

Kvollde minnast og sinn sijdarsta Dauda-Svefn, hviad sa Natturlege er af heim Gemlu kalladur Brodur Daudans, hvad ecke er illa tilfunded, hvi had er æred margt lijkt med heim.

Giorum so nu, minnunst og hann, vier ætlum innann Skams ad giefa oss til Svefns, giefum oss fyrr til Daudans Umhenkingar. Meige eg kalla Svefnenn Brodur Daudanns, ha maa eg segia, ad margt sie lijkt med Skylldum: Lijker eru heir ad Upprunanum. Svefnenn ordsakast af Vessa heim er stijgur upp af Fædunne. Daudenn ordsakast af Oleyfilegre Nautn vorra fyrstu Forelldra. A hverium heim Dege sem hú etur af hessu Tre, skalltu Dauda deya, sagde Gud vid Adam, Gen. 3. Hvi seger og Paulus Rom. 5. Lika sem fyrer einn Mann er Synden innkomen i Heimenn og fyrer Syndena Daudenn, so hefur til allra Manna Daudenn i gegnumhreyngt sier, i hvi aller Syndgudu. Ha Madur sefur, fær hann aptur Vidrietting heirra Krapta, sem hrornudu i Erfidenu, og verdur hvi hæfilegre og frijskare til Erfidesins aptur uppvaknadur; Eins stiedur had i Daudanum; Aller vorir Kraptar vidrettast aptur, ha sw. blessada Rettlætes Sol JEsus upprennur oss i Upprisunne; Had verdur sád forgeingelegur Likame, seger Paull, Enn upprís aptur Ofor-

Oforgeingelegur, 1 Cor. 15. Þad Madur sefur, hvỳlest hann af sijnu Erfide; Eins seg- er Ande Guds, Openb. B. 14, ad þeir Gud- hræddu giøre i Daudanum: Þeir gánga þá inn i sitt Svefnhús, Grøfina, og láta apt- ur Dyrnar epter sier, Es. 26. Þeir hvíl- ast i Abrahams Fadme, Luc. 16. J JEsu Christi Dijrdar Fadme. O! hversu mikel Um- skipte mun þeirre strijdande Brwdur Christi þikia þad orden, eptir margfallda Mædu þessa Heims, þegar hun badar med eilijfre Unun i Fridar Fadme sijns Brwdguma. Þo Lijkam- enn sofi, þad vaker þo samt Sálen, og hefur sijnar vissar Verkaner: Eins þo Lijkamen deye, þad lisir Sálen þess Gudhrædda i Hende Drottenns, hvar engen Pijna snerter hana, Spek. 3. Þad er wte Otte fyrer Daudanum, þegar hid eilijfa Lijf hefur vidteked. Þad Mad- ur sefur, skeiter hann ei um hvad adrer hafast ad i krijngum hann, þo þeir leike, hefur hann þar enga Skiemtun af, og þo þeir grate, hrig- ger hann þad alls ecke; Eins er sá Burtsofn- ade, hann er komenn til fullkomens Yndes i Himnenum, oll Tåren eru þad þurkud af hans Augum, Gledi og Fognud hefur hann hond- lad, enn Hriggd og Sorg er burtvíken frá honum. Eilijfur Fögnudur er yfir hanns Hof- de, og þess vegna skeiter hann eckert um fall- vallta Veru edur Astand þessa Heims, Es. 63.

Þvi

Þvi Abraham veit ecke af oss, og Israel þeck-
er oss ecke Opt kiemur Svefnenn ovart ad,
og engenn gietur sagt fyrer viist a hverre Min-
utu hañ mune hellst sofna; Eins kiemur Daud-
enn ad Oforvarandis, og engenn veit a hverre
Stundu hanns er hellst Von. Sa sem sef-
ur, honum þiker Svefnenn sætur, hann friiast
fra margskyns Mædu og Anstreyme, sem þeir,
ed vaka, verda ad þola, þvi seger Salomon,
Pred: 5. Hver ed erfidar hønum finnst
Svefnenn sætur. Hver sem vill giæta þess,
hvad margslags Hormungar vier hliotum hier
ad liida, hvad sarar og þwngar Armædu-
Stunder, hann mun andvarpa med Pale,
Phil. 1. **Eg gyrnest ad skilia hier vid og
vera med Christo;** Og med Simeone: **Nú
láttu Drottenn Þión þinn i Fride fara.**
Enn Gud Fridarenns giefi ollum þeim, sem
a þessum Vetre, sofna Daudanns Svefne,
ad þeir sofne sætum og salubialplegum Hvijl-
dar Svefne, so vier aller ad Hormunganna
Nottu, og Daudanns Svefne wtendudum,
mættum odlast eilijfaun Dijrdar-Dag i him-
neskum Fride og Fognude, Amen.





# 5. Hugleiding,

## af Kulldanum.

Matth. 24. v. 11.

**Med þvi Ranglæted er orded margfalldt, mun koolna Kiærleikur margra.**

Af Guds Anda kiemur Frosted, seger Job, Cap. 37. Ad soñu er þad Radstofun, og Vijsdomsfull Nidurskipan hins lifanda Guds, so lenge Jorden varer skule ei þriota Frost og Hita, Gen. 8. Enn samt er þad þo Mannkynsins Synda Straff, ad sa kalde Vetur giorer ad ordsaka ecke ad eins so mikla Visnan allra edur velflestra Avaxta Jardareñar, helldur og einnenn morg onnur Bægende og Armædu Monnum og Skiepnum, bæde til Lands og Siaafar, sierdeiles i þessum Alfum Heimsins, fyrer hverium Ohægendum, ad þeir, i þeim heitu Londunum, eru ad soñu frijer; Eñ eg hygg, ad þeirra Hite giore þeim ei minna Mein, eñ ofs vor Kullde, so ad um allann Heimenn hefur Synden ordsakad Mañskiepnunne eitthvad Illt, jafnvel i Rijke Natturunnar; Enn Gude sieu Packer ad Eilijfu!

sem

sem giefur oss aarlega Hwsa- og Fata-Skiol, til ad wtelykia fraa oss Kulldans Meinsemder; Hann virdest og af sinne einskiærre Myskun og Medaumkan, ad vægia oss og vorum Skiepnum fyrer ofniklum Kulldum og Frostum aa þessum Vetre, so ad Himenenn verde ei yfir oss sem Jaarn, edur Jorden, under vorum Fotum, sem Kopar, Levit. 26, vegna vorra Synda og Oþacklætes. Marga Hita- og Hlijenda-Stund hefur Giædska Guds laated yfir oss koma aa þessu Sumre, enn hvada Packer hefur hann þar fyrer af oss fenged? So sem Hitenn og Varmenn lijfgade i Sumar allar Skiepnur, og Avexte Jardarennar oss til Blessunar og Notkunar, so er þad maklegt, vegna vorra Synda og Oþacklætes, þo Gud wtdreifi yfir oss i Vetur Hrijm-Frostenu sem Sallte, Syr. 43. Edur þeite sijnum Is, so sem Munn-Bitum, so vier ei stadest faaum fyrer hanns Froste, Psal. 147. Enn væge oss Gud og vere oss Lyknsamur! Hann straffe oss ecke i sinne Reide, og tipte oss ecke i siñe Bræde, Ps. 6. Hann laate ei þær saklausu Skepnurnar gialldа vors Ogudlegleika! Hañ liet þær i Ninive niota þess ad Innbyggiarner giordu sanna Jdran, Jon. 5. Giorum Jdran vorra Synda, eins og þeir, og mun Gud vægia bæde oss og vorum Skiepnum eins og hann vægde þeim, þvi hann mun ei gaanga

að Bak Orða finna, þeirra er hann talaðe fyrer Ezechielis Munn, Cap. 18, Þegar sá Synduge snír sier, þá skal það ecke skaða hann, þo hann hafi vereð ógudlegur: Og þvi seger David, i Psalm. 130, Hiá Drottne er Myskunsemen, og nógleg Endurlausn, og hann mun frelsa Jsrael af øllum Syndum. Enn vilie Menn ecki bæta sig, þá hefur hann hvatt sitt Sverð, sinn Boga hefur hann útspannað, og miðar til, Ps. 7. Enn so skaðlegur sem þesse Utvortes Kullde er Lijkamanum, so skaðlegur og miklu skaðlegre er Innvortes Kullde Hiartans Sálunne. Hver vill furða sig yfir þvi, þo vorer Vetur sieu kallder, þar vier erum siálfer kalldaster, i þvi sem vier eigum að vera heitaster: Það er i Elskunne til Guðs og Náungans, i hveriu eg hygg Verollden fare ætijð vesnande. Fyrer allar sijnar Velgiørðer gyrnest Guð eckert annað af oss, enn Elskuna, þvi þar sem Kiærleikuren er i sijnu retta Stande, þar fliota wt af hønum allar Dygðer siálfkrafa: Enn þar sem hann er kalldur, þar eru øll Dygdanna Blomstur visen. Þetta sannar Paulus, Rom. 13. segiande: Að Kiærleikurenn sie Løgmálsins Uppfylling. Item seger hann, 1. Tim. 1. Summa Boðorðsins er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta. Allt þetta styrker vor Lausnare

 seg-

fegiande, Joh. 14. Hver hann hefur min Bodord og helldur þau, hann er sá sem mig elskar. Þar fyrer, vilier þu nu, Barned Guds, leggia Gude vel i Pock, þær Velgiorder er hañ veitte þier a uñlidnu Sumre, þa elskadu hañ af ollu Hiarta, ecke af hálfu Hiarta, ecke Heimenn og Gud med sama Hiarta; Þo ad nu þesse Vetur kuñe ad verda kalldur framar ødrum, þa lát þijna Elsku til Guds alldrei kólna, Gud er sa ædste Góde; Eda hvadan hefur þu þa Blessan, sem nu er i þijnu Hwse? Hver gaf þier allt þad hid Góda, sem þu hefur ødlast a þessu Sumre, og ecke einasta þa, helldur alla Lijfdaga þijna? Þu svarar, þad giørde Gud: Þu svarar riett; Elskadu hann þa framm yfir allt, þar øll gód Giøf, og øll fullkomen Giøf kiemur ad ofann frá honum, Jac. 1. Hafdu alldeiles fest Hiartad þitt vid hañ, og þad ecke vegna þijns eigenn Abata, helldur vegna þess hann er so hiartannlega gódur i sialfum sier: Þu skallt láta hann vera þitt Hiartans Traust og Hlutskipte, Ps. 73 Elskadu hann, þvi hañ hefur elskad þig fyrre, 1 Joh. 4. Þu seger: Eg vil giarnann elska Gud. Enn eg spyr, er þad þijn Alvara? Eru þad ecke Læte ein fyrer þier? Þier er kannskie vel vid hann, medann hann lætur þier allt ad Oskum ganga; Enn elskar þu hann hellst, ef

hañ

hann tiptar edur agar þig? Elskar þu hann meira fyrer hid Andlega enn hid Lijkamlega? Heyr þu þar fyrer, þau óbrygdanlegu Kiёñe-teikn, eins sannarlegs Guds Elskara, og at-huga grandvarlega, og fyrer utann ofmikla Sialfs-Elsku, hvert þu finnur þau hia þier so asigkomen, sem hier seger.

1.) Ef þu hefur alla þijna Unun og Hug-arens Fullnægiu i Gude og hanns Ordi: Þar er allur sem uner, sama seger JEsus hia Matth. 6. Hvar ydar Fiesióдur er, þar er ydar Hiarta. Hafer þu Ynde af ad tala uñ hann, og heyra uñ hañ talad. Þar uñ kiemst sialfur JEsus so ad Orde hia Joh. 14. Hvør hann elskar mig sá mun vard-veita min Ord. Einnenn seger Johannes, 1 Joh. 2. Hvør hann vardveiter hanns Ord, sannarlega er Guds Kiærleike i hønum full-komlegur. Enn hafer þu Leida a ad heyra hanns Ord, ert tregur til ad tala vid hañ i þijnum Bænum, þoler illa gudlegar Aminn-ingar, sannarlega er þinn Kiærleike til hañs Daudlaus og Jskalldur.

2.) Añad Audkienne er, ef þu af Hiarta hatar Syndena og ógudlegt Athæfe, ecke ein-asta eina Synd, helldur allar Synder. Þar er eckert Gude so mótstædilegt sem Synden, Ps. 5. Þú hatar ógudlegt Athæfe, seger David. Marger segia med Munninum: eg

elska Gud, eñ Hiartad og Lijferned seger allt annad. Þu varast ad styggia þann, sem þu elskar af Hiarta, so munder þu Gude giora, ef þu elskader hann af Hiarta; Ef þu hatar þad, sem Gud hatar, enn elskar þad sem hañ elskar, þa ertu ókalldur Guds Elskare.

3.) Audkienne er, ef þu sijner þijna Hlijdne vid Gud, med þvi Móte, ad þu kieppest epter ad fa ad vita hvad Gud heimte af þier og med alvarlegre Astundan kappkostar, ad þu gieter orded honum i ollu hvad þægelegastur, ert so strax reidubwenn ad fraḿfylgia þvi, sem þu veitst ad Gud vill þu giorer. Þegar Gud sier ad þu þess vegna villt stunda hañs Ord, ad þu gyrnist ad giora epter þvi, þa giefur hann þier bæde Rad til ad skilia þad, og lijka Krapta til ad laga epter þvi þitt Lijferne. So er þa einn sannur Guds Elskare ecki einasta Ordsins Heyrare, helldur og einninn Giorare, Jac. 1. Ecki gagnar Fædan, ef henni er kastad upp aptur; Guds Ord skal geymast i þijnu Hiarta, so ad Kraptur þeirrar andlegu Fædu siaest i Ulimum þinna hræsnislausu Góðverka. Þad er ei nóg ad vita miked i Guds Orde, þad fordæmer meir eñ frelsar, ef Menn ecki hlijda þvi þad bijdur, Joh. 12. Hvad seger vor JEsus hia Joh. 13. Ef þier vited þetta, þá erud þier sæler ef þier giøred þad. Item Luc. 8.

Þvi

